# Lækninga-Bók

um þá

# helztu kvilla á Kvikfénadi,

samantekin

fyrir Islendinga og løgud eptir þørfum þeirra

af


Jóni Hjaltalín,

Studios. Chirurg. et Medic.




---


Kaupmannahøfn.

Prentud í enni Poppsku prentsmidju.

1837.

Öllum góðum Bændum

á Íslandi

veri ritlingur þessi

með virðingu og kjærleika

tileinkaður!

af

Ritofundinum.



# Til Lesarans!

Fáir vita ómálga mein, segir ordtækid, og á þad opt heima hjá sképnunum, því þó þær verdi veikar, þá veit almenníngur skjaldan hvad að þeim gengur, og deya þær þannig opt af léttvægum kvilla, sökum vankunnáttu eiganda, þeim til stórs skada. Ad þetta opt skédur á Islandi, er engin furda, og í þessu falli má segja um landsmenn mína, „að því er fíbl að fátt er kénnt,“ þar enginn hefir ennþá ordid til að rita um kvilla á fénadi, jafnvel þótt allir viti, að kvikfénadur er hin mesta og bezta adstod Islendínga.

Þegar eg var heima gafst mér opt tækifæri til að sjá hvörninn bændur mistu sképnur sínar opt af lítilvægum kvilla, er þeir ecki þecktu eda vissu ráð ámóti; þetta upphvatti mig til þess, að eg hér hefi varid tómstundum mínum til að gánga á Dýralækn-ara-skólann og kynna mér kvikfénadar helztu sjúkdóma og hvörsu þeir yrdu læknadir; kom eg þá auga á ýms-ar lækníngabækur, er Dýralæknarar hafa samid í almennings þarfir, og hlotid hafa og verdskuldad al-mennt hrós; mér blöskradi þá hvad landsmenn min-ir standa lángt tilbaka fyrir ödrum þjódum í þess-ari grein, jafnvel þótt sképnurnar séu þeirra helzti næríngar-stofn; eg ímindadi mér að þad bædi vær

vel gért og yrdi gódfúslega virdt og medtekid af Íslendíngum, ef einhvør rédist í ad semja handhæga bók um þá algengustu sjúkdóma á sképnum útá Íslandi, og jafnframt kénndi heilnæm ráð þarámóti. Eg tók mér því fyrir høndur ad skrifa bækling þenna eptir þeim nýustu og beztu Dýralækníuga bókum, eg gat fengid, og nefni eg hér þær helztu, er eg hefi haft mestann studning af: nl. J. N. Rohlwes lækníngabók fyrir bændur; Lectors G. C. Witts Handbók í Dýralæknisfrædinni, og J. F. C. Dieterichs Dýralækníngabók. Þeirri fyrstu hefi eg vída, hvar því vard vidkomid, þvínær ordrétt fylgt, en Kapitulann um Hundaveikina hefi eg tekid úr þeirri sídustu. Kaflinn um Fjárpestina hefir kostad mig tøluverdt ómak, því eg hefi, ad minni hyggju, tiltint allt hvad þarum skrifad er; notadi eg í því skyni bædi Ferdabók Landlæknirs Bjarna sál. Pálssonar og annara, sømuleidis allt hvad eg sjálfur vissi og fann bædi í Veterinair Selskabets Skrifter og í skirslum til hins konúnglega Rentukammers.

Vid sérhvøru sjúkdóm hefi eg gétid allra þeirra beztu medala, sem rádløgd eru í tédum bókum, jafnvel þótt ég viti ad landsmenn mínir ei alltíd hafi þau vid høndina, en hægter hvørjum sem vill ad fá þau bædi hjá Apóthekaranum og Fjórdúngslæknurunum, og væri ómissandi fyrir bændur á Íslandi, sem hafa margar sképnur, ad kaupa hin helztu af þeim og hafa í húsum sínum, álíka og bændur gjøra erlendis; þarhjá hefi eg, hvar mér þókti hæfa, gétid allra þeirra innlendu urta, er brúka má í stad hinna dýrari skjald-

sengari medala, þegar bændur ei géta fengid þau. Eg hefi optastnær líka nefnt þau latínsku nøfn urtanna, gérdi eg þad til þess, ad læknarar og prestar, af hvørjum margir eru grasafródir, sídur skyldu fara vilt á nøfnum þeirra.

Med því margir hafa á seinni tímum ordid til ad rita fyrir Landsmenn mína, og útgéfa bækur, og þó um þær megi segja líkt og skáldid sagdi fordum: „sumt var gaman, sumt var þarft, sumt vér ei umtølum," þá veit eg nú ad nockrum løndum mínum máské muni þykja svosem eg med bækling þessum beri í backafullann lækinn; en þeim einum vil eg svara því, ad af nytsømum bókum, sem ennþá eru óþecktar, er framar oflitid enn ofmikid á Islandi, og vonar mig ad bækling þenna megi telja medal nytsamra bóka, ef rétt er medfarid.

Þegar eg í haust féck Bodsbréfin ad heiman, þau er eg sendi út til Islands í fyrra vor, ørvænti eg ad géta géfid út bók þessa, þared svo fáir høfdu skrifad sig fyrir henni, og hefdi bædi søkum efnaleysis og annríkis mátt láta þarvid lenda, ef ecki sá gódfrægi og løndum sínum svo velviljadi Prestur Sira **Þorgeir Gudmundsson** hefdi styrkt mig þartil med rád og dád; hønum er þad þannveg mest ad þacka ad bæklingur þessi kémur fyrir almennings sjónir. Hann upphvatti mig til ad vid létum kosta medfylgjandi eirmálverk, er sýnir tilbúníng hinna helztu Dýralæknara verkfæra, er skynsamir bændur vel géta tilbúid, og svo brúkad sem eg hefi sagt fyrir í bæklíngi þessum; þetta hefir ad vísu gjørt bæklínginn nockud dýrari enn hann ella hefdi ordid, en mér þókti þetta gjøra

hann bædi nytsamari og eigulegri, og vona eg ad enginn viti mig þarfyrir.

Vegna annríkis hefi eg opt mátt vera stuttordari enn eg annars mundi hafa viljad; og þykist eg því vita ad ordfæri og stílsmáti eigi er svo vandad, sem vera mætti, hefdi tíminn verid nógur, en eg vona svo góds til landa minna, ad þeir gódfúslega afsaki mig og taki viljann fyrir verkid. Ad endíngu óska eg, ad mínir heidrudu landar mættu hafa øll møgu-legnot af bæklíngi þessum, og ad þeir gætu, eptir hans ávísun, hjálpad skepnum sínum, þegar sjúkar verda, sér til hagnadar og hamingju, þykist eg þá njóta þeirra kjærkomnustu launa og stærstu gledi fyrir ómak mitt.

Kaupmannahøfn, 1ta Aprilis 1837.

Jón Hjaltalín.



# Innihald.

## 3 Kapituli.

### Um innvortis sjúkdóma á hestum, þeirra einkénni, upptök og lækningarmáta.



## 4 Kapituli.

Blads.

## 5 Kapituli.

### Um útvortis sjúkdóma á Nautpeníngi, þeirra einkénni tilefni og lækníngarmáta.



## 6 Kapituli.

### Um innvortis sjúkdóma á Nautpeníngi, þeirra einkénni tilefni og lækníngarmáta.



## 7 Kapituli.

Blads.

## 8 Kapituli.

### Um útvortis sjúkdóma á Saudfénadi.



## 9 Kapituli.

### Um innvortis sjúkdóma á Saudfénadi.



## 10 Kapituli. Um Hundaveiki.



## Vidbætir.





## 1 Kapituli.

### Um kynferdi Hesta, og eldi þeirra.

Hesturinn er einhver hin þarfasta sképna fyrir manninn, en er ogsvo mørgum sjúkdómum undirorpinn; þessvegna skal hér talad fyrst um þá sjúkdóma, sem eru algengastir á hestum á Íslandi.

---

Þad er medal Dýralæknara almennt vidtekid, ad mikid sé undir því komid ad vanda kynferdi hesta, og ad bædi færleikar og gradhestar séu sem bezt valdir til þess; en þótt nú allir viti hvad bágt því er vid ad koma á Íslandi, hvar Stód gengur, svo hópum skiptir, uppá afréttum sjálfala þad mesta af sumrinu, þá skal hér samt stuttlega drepid á þau helztu einkénni á færleikum og gradhestum, sem álitast mega gód til undaneldis. Gradhesturinn má ei hafa stærra høfud enn vel samsvari kroppnum; eyrun eiga ad vera smá og ecki standa oflángt hvort frá ødru; augun stór, framstandandi og þó lýtalaus; hálsinn lángur, eigi þyckur um of upp vid mackann, því þá ber hesturinn skjaldan høfudid vel; hálsinn má heldur ecki vera boginn nidurávid, (er almennt kallast Hjartarháls) hvad ed gjørir hestinn óálitligann; brjóstid skal vera

breidt og framfæturnir uppvid bógjinn breidir og sterklegir, þvi séu þeir mjóir og veiklulegir, er hesturinn optast beygja; knéd á ad vera breidt ad framan, fótleggurinn og sinin, sem þartil er fest, breid til beggja hlida; hófskéggslidsbeinid svo stutt sem verdur, og skyldi þad vera i lengra lagi, þá má þad eigi bogna þegar hesturinn gengur, þvi þad er vottur þess, ad beinid er veikt; hófurinn á ad vera sléttur bædi ad framan og til hlidanna, án sprúngna; nedri hluti hófsins á ad vera holur en ecki flatur; fótleggirnir eiga ad vera beinir, þad er ad skilja: ad jafn lángt skal vera á milli fótanna nedantil sem uppvid bógjinn; heldur ecki mega fæturnir standa á ská út eda innad, heldur oldúngis réttir; hryggurinn á ad vera beinn en ecki bóginn innávid; kroppurinn frá bógnum sívalur og bógarnir ecki alltof háir; lendin ávöl, flöt, en ecki framstandandi; lærin breid og sterk, og konúngsnefs lidamótin sterk; fra konúngsnefinu allt nidur til hófsins eiga apturfæturnir ad vera eins og framfæturnir, þeir mega ecki heldur standa oflángt eda stutt hvor frá ödrum nedantil; merki madur til hnúta bakvid konúngsnefid eda á þvi sjálfu (Spat og Galle) edur og nedantil vid hófslidinn, þá er þad slæmt merki; bádir kólfarnir eiga ad vera audsjáanlegir á gódum gradhesti. Skjaldgjæft er þad, ad allir þessir eiginlegleikar finnist hjá einum hesti, en þvi fleiri sem hesturinn hefir af þeim, þess betri er hann.

Hérumbil sömu kénnimerki eru á gódum færleikum; en þad er almenn meining Dýralæknara, ad folöld undan færleikum innan þriggja ára verdi aldrei eins gódir

og sterkir hestar sem undan eldri. Fyldir færleikar, sem hafdar eru mjög í brúkun, verda ætíd ad fódrast vel, ad þær géti bædi verid duglegar til brúkunar og líka fædt folöld sín. Merki, sem géfa til kynna ad færleikur sé med folaldi, eru eigi ætíd áreidanleg í þeim fyrstu 4 mánudum, en eptir þann tíma gétur madur gengid úr skugga um þad á þenna hátt: madur standi vid hlidina á færleiknum, þegar madur géfur henni ad drecka, og leggji svo hendina flata á kvidinn rétt fyrirframan júvrid, mun þá madur hæglega géta merkt hræringu þá, sem folaldid gérir med framfótunum. Gott er, géti laghendtur madur verid vid, þegar færleikur á ad kasta, til þess, ef med þarf, ad géta hjálpad bædi færleiknum sem folaldinu. Veri þad vid, ad færleikur fædi í hesthúsi, gétur þad skéd, ad hún vegna fædingarhridanna setji bakhlutann svo fast uppvid vegginn, ad þad bædi skadi folaldid og hindri fædínguna, þá er þad naudsynlegt ad færleikurinn færist burt frá veggnum, svoad hún géti kastad. Strax sem folaldid er kastad, eiga himnur þær ad sprengjast, sem eru utanum þad; sídan skal binda fyrir naflastrenginn og skéra hann í sundur 2gja fíngra breidt frá kvidnum; þetta er samt ecki naudsynlegt, þar hann optast fer í sundur, hvar bandid er um hann bundid, og ad folaldid deyi af blódmissir þarf madur ecki ad óttast fyrir. Verdi madur þess var, ad færleikur ætti bágt med ad kasta, væri rádlegt ad hafa hana heima vid bæi um þad leiti, svo sképnunni yrdi hjálpad; vissasta merki uppá ad færleikar séu komnir ad kostum er þad, ad þær fá mjólk í júvrid.

Orsakir til ad færleikar kasta offnemma eru sidvanalega þessar: ad þær annadhvort haust eda vor bita frosid gras, eda hvar hrim hefir áfallid, ellegar ad þær í rigníngum og koldu vedri hafa svitnad og þaráeptir ordid kaldt; þad fyrra gétur madur fyrirbyggt med því, ad halda þeim inni á nóttum, og ecki sleppa þeim út fyrrenn hrimid er affallid, og taka þær inn á kvoldin ádur hrim áfellur; og ad þeim verdi ecki ofkaldt eptirad þær snegglega hafa svitnad, má fyrirbyggjast med því ad leggja brekán yfir þær *). Onnur tilfelli, sem géta orsakad ad færleikar kasti offnemma, svosem hogg, sleg, þar sem hestar gánga úti í hogum, er ómogulegt vid ad gjora. Í hesthúsum ætti madur þarámóti ad láta færleika med fyli standa sér, og hlifa þeim sem mest verdur vid mikilli áreynslu; og skyldi færleikur kasta á vetrardag, og folaldid eigi ad lifa, er bezt ad færleikurinn sé útaf fyrir sig, bædi ádurenn hún kastar, sem og eptir þad, allt þángadtil ad bædi géti gengid úti.

Þegar svo ber vid, ad færleikur ecki gétur án hjálpar kastad, þá verdur madur strax ad vera nærstaddur, því annars ofþjakast færleikurinn af fædíngarhrídunum og fædíngin verdur þá ómoguleg. Þegar bádir fæturnir eru fæddir og folaldid ecki fylgir med vid fædíngarhrídirnar, verdur madur ad hjálpa náttúrunni med því ad toga í bádar fæturnar, og þannig útdraga folaldid;

*) Þó mun þessu bágt ad vidkoma á Íslandi, en þessa er hér því gétid, ad þetta er sidvenja í odrum londum, og gæti allvel á morgum stodum brúkast á Íslandi.

hjálpi þetta ecki, smockar madur upp erminni á hægra handlegg, smyr handlegginn med olíu eda lýsi, og færir nú hendina lángs med þeim úthángandi fótum inni móðurskeidina, og rannsakar hvort hofud folaldsins ècki sé beygt aptur á vid; sé þad nú svo, færist hendin lengra inn, svo madur nái utanum munn folaldsins, og géti svo beygt hofudid fram á vid; og strax sem nú fædíngarhrídirnar láta sig í ljósi, togar madur nú jafnframt í fætur og hofud, hvarvid folaldid þá hæglega fædist. Adgætandi er vid verk þetta, ad madur ádur hafi skorid neglur sínar vandlega, svo þær hvorki skadi fóstrid né fædingarvegina. Sé nú einúngis annar fótur folaldsins fæddur, en hinn standi innanfyrir og hindri fædínguna, verdur madur, sem fyrr er sagt, ad færa hendina inni módurskeidina, ná fætinum út þad fljótasta, og plagar fóstrid þá ad fylgja strax á eptir. Veri nú svo vid ad bádir fætur folaldsins ásamt hofdinu liggi innanfyrir þá útvortis fædingar-limi, má sá fótur fyrst útdragast, sem bezt verdur adkomist, þareptir hinn fóturinn og hofudid, og ad lokum sjálft folaldid. Ordugri er fædíngin, þegar folaldid liggur rángsælis, svo ad apturfæturnar ber ad, en hofud folaldsins veit framávid ad brjósti færleiksins; vilji þannig til, verdur ad binda sterku bandi ofantil vid konúngsnefid á apturfæti fósturssins, og þannveg toga fótinn fram, sem ómogulegt er med hendinni eintómri; sama adferd er vid hinn fótinn, og nú útdregst folaldid med því ad toga í bádar fæturnar; fædíng þessi er mikid hord, en þó er þetta reynandi heldurenn ad bædi deyi hjálparlaus. Þad ber opt vid, ad

eptir hvílíka fædíngu kémur bólga í móðurskeidina, og má þá adfara þannig: bólgan auglýsir sig í munna móðurskeidarinnar, og strax sem vart verdur vid hana, skal færleiknum takast blód á háls-ædinni, sem svari einum potti, og þaráofan badist móðurskeidin med koldu vatni; vari bólgan altadeinu, verdur madur ad géfa færleiknum 2 lód af hreinsudum saltpétri, uppleystum í einum potti vatns; þaráeptir heldur madur áfram ad bada móður-skeidina, þartil bólgan hverfur.

Sé færleikurinn mogur, verdur hún ad komast í gódann grasgáng eda hafa nægilegt fódur, svo hún géti mjólkad vel og fædt folald sitt. Ecki er gott ad brúka færleika mikid þann fyrsta hálfa mánud eptir ad þær hafa kastad, því bædi veikir þad þær og folaldid, ef til vill.

Skéd gétur ad færleikar séu svo illar, edur og ad þær kitli, svo folaldid ei fái ad sjúga þær; skal þá taka hofud folaldsins og halda því fostu, en annar madur haldi upp framfæti færleiksins á þeirri hlid, sem folaldid á ad sjúga, svo færleikurinn ei géti sleg-id folaldid; hjálpi þetta ecki, skal binda snæri um snipa færleiksins og reyra fast ámedan folaldid sígur; þetta ítrekast fleirum sinnum, þartil færleikurinn tek-ur vid folaldinu. Hafi færleikurinn mjog litla mjólk, þá verdur ad láta hana standa á gódu fódurlendi, edur og géfa henni inni, ef færi er til, en adgætandi er þá, ad hún hafi nóg ad drecka. Svo framt því verdur vidkomid, er bezt ad láta folaldid gánga undir módirinni þá fyrstu 6 mánudi eptirad þad er kastad,

þó má taka þad frá færleiknum eptir 5 mánudi, einkum sé þad sídla kastad. Mjøg ridur á ad folold séu vel alin þinn fyrsta vetur, því forsómist þad, fá þau aldrei eins góda krapta, sem annars væri audid, og verda optast beygjur.

Alstadar þar, hvar járna þarf hesta, sem vídast er sídur á Íslandi, ráda Hestalæknarar til, ad venja folold þartil strax frá únga aldri; gjørist þad med því móti, ad madur hvørn 3ja mánud heldur fótum þeirra upp á vixl, og skér af hófunum, hvar þeir eru oflángir; adferd þessi er nytsøm í tvøføldu tilliti, því bædi venjast foleldin á því til ad verda járnud, og líka kémur madur med þessu í veginn fyrir ad hestar verdi skakkhæfdir, sem alltíd er forsómun eigandans ad kénna. Vilji folaldid ei standa, þegar fæti þess er lypt upp, þá verdur ad binda snæri um skolt þess.

Hesthús folalda eiga ad vera heit, en þó ecki rakafull; þetta fyrirbyggist bezt vid ad hleypa foleldum út, þegar gott er, og moka hesthúsid iduglega. Naudsýnlegt er ad hafa litinn glugga á hesthúsinu, því dymm hús eru øllum sképnum, og einkanlega þeim úngu, mjøg skadvænleg. Gott er ad kémba folold iduglega, hvar þess er kostur. Adgætandi er líka, ad madur ecki brúki trippi offnemma, því aldrei ætti madur ad brúka únga hesta til sterkrar áreynslu, fyrrenn þeir eru 4ra vetra, þess endíngar betri verda þeir.

Fódur hesta ætti ad vera gott, einkum reidhesta; mjøg brennt og miglad hey er øllum hestum mjøg óhollt, en þó einkum foleldum; sama er og ad segja um mýra-

gras, sem offnemma er slegid, því fololdin fá gjarnan sótt þaraf og þrífast illa. Ágæta vel má ala hesta á hofrum, því bædi verda þeir þaraf kraptbetri og líka lífadri enn af einsömlu heyi. Bygg má líka géfa úngum hestum og gömlum, Rúgur er þarámóti óhollur þeim úngu. Adgætandi er, ad hey, sem eldishestum er ætlad, ætti aldrei ad slá ofseint, því þarvid verdur þad kraptminna; bezt er þad hey fyrir þá, sem slegid er á þurrlendum fjallslæum edur og vallendis bockum. Ecki er hægt ad ákvarda, hvad mikid fódur hesti skal géfa, því þad er mikid komid undir stærd og brúkun hans; en ætid ætti madur ad sjá til ad géfa hestum gódum tíma ádur enn þeir væru brúkadir, því óhollar eru þeim fastar ágirdíngar, er þeir hafa nýlega etid, þad gétur forsakad, ad þeir ei þrífist af fódrinu, en verdi megri og kraptaminni. Einka gott er ad busta reidhesta iduglega edur og núa þá med heyi, þad örfar þá og vidheldur heilsu þeirra; sömuleidis er þad mjög naudsýnlegt ad halda þeim vel hreinum. Þar sem mögulegt er, ættu hestar ætíd ad gánga á fjall-lendi, vita þeir og gjarnan sjálfir, þar sem svo ástendur, ad velja sér þad, og reynslan hefir kénnt, ad gras þad, sem vex á fjall-lendi, enda þó þad sé smærra, er bædi meira nærandi og líka hestum hollara, enn þad, sem vex á láglendi og í mýrum.



# 2 Kapítuli.

## Um Hestanna útvortis sjúkdóma, þeirra einkénni, upptøk og lækningar-máta.

### § 1.

### Um meinsemdir í munninum.

Framantil og innantil á efri slípa (Overlæbe) koma stundum smá vatnsblødrur; þessar mega skérast burtu med beittum knísi, þareptir nýr madur salti í sárid, og læknast þær þá af sjálfu sér.

Þegar folaldin skipta tønnum (fá nýar tønnur) ber þad stundum vid, ad sú lausa tønn ecki vill falla burt, þaraf orsakast þad, ad sú nýa tønn verdur skøkk, en þetta er hægt ad hindra med því strax ad brjóta þá gømlu tønn burt.

Þegar trippin eru 2gja edur 3gja ára gømul, vex stundum efri slípinn framyfir tønnurnar, sem hindrar þau frá ad bíta; þetta læknast med því ad skéra 2 skurdi í gégnum slípann innanfrá útad; skurdina lætur madur blæda svo mikid sem þeir vilja, og smyr svo sárin med hunángi, sem blandad sé med ediki, gróa þau þá brádum.

Opt ber þad vid, ad hestar fá sár í munninn undan beizlum, og er þá einka gott ad smyrja sárin med ediki og hunángi nockrum sinnum daglega. Stundum særist túnga hestsins af beizlinu; sár þad má þá þvo med søltu vatni, og þareptir smyrja med ediki og hunángi.

Þegar svo ber vid, ad munnvatnid iduglega rennur útúr hestinum, og hesturinn þarhjá er daufur, hengir høfudid nidur, vill ecki bíta, blódugir blettir sjást á

túngunni og uppi í gómnum, þá kallast sjúkdómur þessi Túngublodruꝛ (Trodskesyge). Sjúkdómur þessi læknast þannig: madur tekur] sívala spítu, 1ar álnar lánga, og á digurd við þumalfíngur, klýfur hana í annann enda í kross (álíkt sem gaflok), festir þarí sínar léreptsríur, og bindur svo fast um endann að eigi losni; þareptir tekur madur einn matspón af hunángi, 1 pela af olediki og handfylli af salti, og hrærir þetta saman; nú dýfir madur léreptsríunum í þetta samblönd, og smyr því á góm og túngu hestsins 3svarsinnum daglega, hvarvið hesturinn frýast við kvilla þenna.

Stundum ber það við, að hestar allt í einu hætta að jeta, kémur það af því, að kvistur sezt í millum tannanna þvers yfir túnguna, svo hesturinn á bágt með að renna nidur; á þessu er hægt að ráða bót þannig: madur leggur þykkva spítu milli tannanna, og ransakar svo munninn, og tekur kvistinn eða hvað annað, er vera kann millum tannanna, út með fíngrunum.

Í útlendum, hvar hestum ástundum er géfið kál og kartoflur, ber það opt við, að það situr fast í vælindinu, svo hesturinn gétur eigi kýngt því; hesturinn teigir þá hofudið framávið og vill reyna til að hósta; augun standa stíf og lifædin slær mjeg ótt, utaná hálsinum finnst líka sem hnútur. Hafi madur nú spansreyrstaf eða spítu úr gyrdi eða skídi, sívala og 4 feta lánga og hérum fíngurs þykkva, þá skal madur vefja þunnu lérepti um annann enda hennar, smyrja þenna enda með lýsi eda olíu, láta nú adra spítu milli tanna hestsins, og með áðurtédum staf eda spítu reyna til að ýta jardeplinu

eda kálleggnum nidur i maga hestsins; en medan á því stendur, má annar madur halda hofdi hestsins svoleidis, ad þad standi i beinni línu med hálsinum. Hjálpi þetta ecki, plaga Hestalæknarar ad géra langann skurd vinstra meginn á hálsinum, hvar vælindid liggur, opna nú vælindid og úttaka bitann, og sauma þad svo saman aptur, loka nú sárinu, sem þeir bada nockrum sinnum daglega med koldu vatni, og fódra svo hestinn med skornum hofrum, þartil sárid er gróid. Adgætandi er vid þetta, ad madur eigi sundurskéri lif-eda blód-ædina, sem liggur i hálsinum.

## § 2.
### Um Augna-Veiki.

Beri svo vid ad annad eda bædi augun bólgni, hestsurinn sé miog voteygdur og haldi auganu aptur, og augad sé venju framar raudt, þá er þetta merki til augnabólgu; strax skal þá hestinum blód taka á háls-ædinni og skal blæda rúmann pott. Hid veika auga má nú bada med koldu vatni, edur og daglega smyrja þad med Blyhvítusalve med Kamfóru (ungventum album Camphoratum) vel þyckt yfir augnalokid. Sé nú augad, þegar bólgan er horfin, iklárt, þarf eigi meiri vidgiordar vid; komi þarámóti himna yfir þad, sem ecki hverfi af sjálfu sér eptir 8 daga, þá er venja ad hánka hestinn á kinninni nedantil vid augad, edur og taka 1 qvintin af Spansflugnapúlveri og 1 lód af svínafeiti, gjora þaraf smyrsli og smyrja þessu á og umkríng hid veika auga. Nockrir brúka hveiti med 3 lódum af

Glaubersalti (Sal mirabile glauberi), hræra þad út í vatni og géfa hestinum 2svar sinnum dagliga. Hafi auga hestsins meidst af útvortis tilfellum, er nóg ad bada þad med köldu vatni og taka hestinum blód, án þess ad brúka nockur smyrsli. Fái hesturinn fleirum sinnum illt í augun, og þad komi af innvortis orsökum, þá er þad slæmt merki, því þá plagar ad koma Starblinda (Catharacta) ad lokunum. Komi og fari augna-veiki á hesti hvad eptir annad, kallast þad Mánadarblindni (Maaneds-Blindhed); ecki hafa dugleguslu læknarar ennþá gétad fundid rád vid þessum kvilla.

Til eru ogsvo augna sjúkdómar, sem koma af veiklu í augunum; eru þeir tídastir á hestum þeim, sem hafa gengid á raklendi i vötvidri. Sjúkdómsins kénnimerki eru þessi: augad er bólgid og flýtur í vatni; hornhimnan *) er optast gagnsær, þó eru stundum ský á henni; þó hornhimnan sé gagnsær, þá er þó opt vatnid, sem liggur í fremri augnakarminum grænlitad og grefti blandad; sé ský á hornhimnunni, er ómögulegt ad sjá innvortis ástandid í auganu, fyrrenn skýid er horfid. Þegar þannveg er ástadt, má augad opt bada med eptirfylgjandi medali: madur taki tvær handfyllir af Kamomillu-blómstrum (flores chamomillæ vulgaris), þará helli madur $1\frac{1}{2}$ potti af sjódandi vatni, og helli svo vatninu frá, þegar þad hefir stadid 1 fjórda part

*) Þannig nefnist sú svarta himna, er liggur fyrir sjáaldrinu.

kluckustundar; í vatn þetta, sem er fráſiad, lætur madur 2 qvintin af hvítu Victrili (vitriolum album). Innvortis brúkast dupt af Hvannarót (radix angelicæ) Entianrót (radix gentianæ), og Vellandsurt (radix valerianæ officinalis), 12 lód af hvorri; af þessu púlveri tekur madur 2 lód og blandar þeim 3svar sinnum dagliga í hey hestsins. Líka er gott ad brúka 1 pott af Rósavatni med 1 lódi af Opiumsdropum til ad bada augad med *). Reynslan hefir kénnt, ad betra er med pennafjedur ad smyrja áminnst Blýsalve med Kamfóru inni augad; adferdin er þessi: med vinstri handar þumal- og vísi-fíngri adskilur madur augnalokin á því veika auga, tekur nú litid eitt af smyrslum, sem svari einni baunar stærd, lætur það á pennafjedrina, og med henni inní augad, þareptir apturlykjast augnalokin og pennafjedurin tekst út.

## § 3.

### Um Kirtlabólgu undir kjálkanum.

Í Kirtlabólgu þrútna kirtlarnir undir kjálkanum, verda þar opt úr kýli, og skal þá þannig adfara: strax sem vart verdur vid bólgu undir kjálkanum, á bólgan daglega ad smyrjast med gæsarfeiti, eda vanti hana, þá med svidaflóti **), lappi af lambsskinni sé nú bundinn

*) Rp. Aqvæ rosarum ℔. Tincturæ opii simplicis ℥; d. s. Augnavatn.

**) Hafi madur hvorki gæsarfeiti eda svidaflot, má vel brúka 4 lód Laubæroliu og 4 lód Althea smyrsli, (ungventum altheæ), og blanda vel saman.

yfir bólguna, og strax sem merkist til ígjordar er naudsýn ad stínga á kýlinu med oddhvesšum knífi; er kýlid stórt, má gatid vera svo stórt, ad rúm sé fyrir 2 fingrum; sé þad litid, þá þarf gatid eigi ad vera stærra enn sem svari 1 fingurs breidd, og má gatid ecki lokast fyrr enn kýlid er útgrafid; en adgætandi er, ad ádurenn stúngid er á kýlinu, eiga oll hár umhverfis þad ad burtrakast; þaráeptir heldur madur áfram med ad smyrja kýlid med gæsarfeiti eda svidafloti, þartil þad er gróid. Stundum koma fleiri kýli hvert eptir annad, og er adferdin oll hin sama. Kýli þessi koma ecki einasta bakvid kjálkann, heldur ogsvo í hálsinum, og eiga þau einnig ad smyrjast med gæsarfeiti eda svidafloti. Stundum lída munnvatns kirtlarnir med, er grefturinn snertir þá; beri svo vid, rennur vatn útaf sárinu; verdi madur þessa var, þá tekur madur upptáinn tjeruhamp, vætir hann í samblandi af 2 lódum af Alóe-dropum (essentia aloes) og 2 qvintinum Terebintinolíu, og stíngur svo hampinum inní sárid svo lángt sem mogulegt er.

Kirtlabólgur þessar géta og komid á adra parta líkamans, en adferdin er hin sama, nefnilega: ad stínga á kýlinu, sjá til ad grefturinn géti flotid út, ad gatid eigi grói offljótt saman, og sárid daglega hreinsist af greftinum*).

---

*) Þad undrar víst marga ad smyrsli og plástrar ecki eru hér nefndir sem góð medol vid kýla-meinum, en margir Dýralæknarar, þarámedal sá nafnkéndi Rohlwes álítur þá ecki naudsýnlega, og gjora opt meiri skada enn gagn-

Hafi hestar kirtlaveiki, verdur ad varna þeim vid kulda, og eigi géfa þeim iskaldt vatn á vetrum, ef því verdur moguliga vidkomid; og þegar þeir í sjúkdómnum géta jetid, má engin innvortis medol géfa þeim, því náttúran fríar þá frá frumefni kirtlanna med kýlunum.

Skyldu kirtlabólgur á bakvid eyrun eda undir kjálkanum verda svo stórar, ad andardráttur hestsins þarvid hindradist, þá er naudsynlegt ad taka hestinum blód, sem svari 1 potti, samt flýta fyrir ad kýlid grafi út, med því ad leggja á þad volgann hafragraut med steyttum lauk, og strax stínga á því, þegar madur merkir ad groftur er í því.

Skyldi svo vidbera ad kirtlakýli kæmu á hlidinni undir auganu, svoad munnvatnsgángarnir sundurgræfust af greftinum, þá þekkist þetta af því, ad munnvatnid rennur sem hreint vatn útúr sárinu; sár þetta verdur þá optast sem mjór gángur, og læknast torveldliga, fyrrenn ef svo vill til ad munnvatnsgángarnir stoppist, svo munnvatnid géti ei runnid út; þetta gétur nú einúngis skéd med því ad brenna þá med glóandi járni; adferdin er þá þessi: madur tekur sívalt járn álíka digurt og pípulegg, gjörir þad glóandi, en leitar þó ádur fyrir sér med kannanum*), hvornin sárid liggi og hvad djúpt þad sé, nú færist þad glóandi járn med smá snúníngum hægt og hægt nidur ad botni sársins, og þetta itrekast

Náttúran læknar oll sár, þegar grofturinn gétur runnid út, og sárin haldast hrein.

*) Þannig kallast mjór stíll, tilbúinn úr silfri, járni eda blýi, sem læknarar brúka til ad kanna sár med.

nockrum sinnum; munnsvatnsgángarnir lokast nú vid þetta, munnvatnid gétur ei flotid út og sárid læknast fyrst ad innanverdu; gott er, þegar madur brennur, ad gjøra ytri munna sársins nockud stærri, svo þad ei grói offljótt.

## § 4.

### Um Hálsmein hesta (Strængel.).

Merki sjúkdómsins eru þessi: hesturinn vill eigi bíta og etur ecki heyid, ef hann stendur inni; hann á líka bágt med ad drecka, og vatnid sem hann reynir til ad drecka rennur útum nasirnar; eyrun eru køld, hofudid hángir niduravid, og eptir þvi sem andardrátturinn verdur þýngri, heyrir madur meira buldur, sem líkist hriglu niduri hálsinum. Undir hálsinum nálægt barkakýlinu merkist til bólgu, og kreysti madur bólguna verkjar hestinn; munnur hestsins er mjøg heitur og túngan þur. Strax sem verdur vart vid þetta, skal hestinum blód taka á hálsblódædinni, sem svari 1 potti, og géfa hestinum þetta inn: tak ½ pund hunángs og hrær þari 8 lód af hreinsudum steyttum Saltpétri; skyldi þetta verda of blaut kássa, má blanda þari méli, svo þad verdi þykkra. Af þessu medali smyr madur 4um sinnum daglega, sem svari 2 lódum, med litlum spada á túngu hestsins. Bólguna undir kverkinni smyr madur 2svar sinnum daglega med þessari olíu: tak 8 lód af Kamfóru og steyt i dupt, hell þará smátt og smátt 8 lódum af Línolíu, og hrær svo i því, þartil Kamfóran er uppleyst í Línolíunni; blanda þaráeptir 4 lódum af Salmiakspiritus (Spiri-

tus salis ammoniaci causticus) saman vid þetta, og brúka svo þessi smyrsli sem ádur er sagt, þartil hesturinn er ordinn albata*). Varast verdur, ef ordid gétur, ad kuldi komi ad hestinum, ámedan sjúkdómurinn varir; eigi má hann heldur drecka kaldt vatn, heldur nymjólkur volgt vatn ámedan hann er sjúkur. Strax sem hesturinn gétur farid ad jeta, er bezt ad géfa honum smáttsaxad hey eda hafra, ef til eru.

## § 5.

### Um Mjó-sár á hálsinum (Fistlér).

Skámt bakvid eyrun koma stundum vinstra eda hægrá megin vid makkann laung og mjó sár; byrjar þetta med litilli bólgu á þeim stad, hvar sárid seinna kémur, og á þá bólgan strax ad smyrjast med salvi af 1 qvintíni Spansflugupúlvers, ½ qvintini Evphorbium gummi (gummi Evphorbium) og 2 lódum af svidafloti; hérvid hverfur ástundum bólgan og orsekin til mjóu-sáranna ásamt henni**); grafi bólgan nú þrátt fyrir þetta út, verdur med knífi ad stæcka gatid, þar sem groftúrinn kémurút; sárid gjörist nidur á vid, og verdur þad ad vera svo stórt, ad komast megi med fingri nidur ad botni sársins;

*) Séu þessi medöl ei vid hendina, þá má brúka Kamferolíu, og Opodeldok; og vanti þetta, þá svidaflot eda hreint lýsi.

**) Istad þessa má líka brúka smyrsli af Vallhumli og nýu ósöltudu bræddu smjöri, med litlu af Kamfórudupti, um hvert seinna verdur gétid.

þareptir tekur madur hor eda hamp og vættir í smyrslum þeim, sem nefnd eru í § 3, hvareptir hampur þessi látist nidur í botn sársins; þetta verdur ad ítreka tvisvarsinnum daglega, þartil sárid grær, grofturinn sem setur sig á barma sársins verdur vandlega ad þvost í burtu.

Er mjó-sárid gamalt og grofturinn þunnur og lyktarslæmur, er ad óttast fyrir ad sárid nái til hálslidanna, edur máské ogsvo grafi í þeim; sé svo, skal madur fara inní sárid med laungum og sterkum blýkanna, svo lángt sem verdur, halda honum í botni sársins utádvid, og skéra skurd nedantil á hálsinum, hvar finna má nedri enda af kannanum; þetta nýgjorda sár verdur ad ná til nedri enda mjó-sársins; inní þetta nýgjorda sár lætur madur nú hamp vættann í ádur umtöldum smyrslum edur Terebintínolíu; á sagdann hátt skal nú búa um sárid einusinni á hverjum degi, þángadtil þad er gróid; en fari svo ad nedri endi sársins grói offljótt, verdur þar ad géra nýann skurd. Viss von er um ad géta læknad þetta mjó-sár, sem annars er mjeg hættulegt, þegar grofturinn er þykkur og ecki lyktarslæmur.

## § 6.

### Um Meidsli.

Þegar meidsli koma undan reidtýum eda reidíngi, verdur ad bada þau í köldu vatni, edur og þvo þau med sápu og brennuvíni, hvarvid þau optast hverfa. Opt kémur ofaná meidslin bladra, sem vid ellina verdur álíka og blautur svampur. Þetta verdur nú ad kringlóttri blodru, sem madur med fíngrunum gétur fundid ad er

full af vatni, og sem má færa fram og aptur; á blødru þessari má nú stinga annadhvort med heſtabildi eda landsetu, hvarvid hægt er ad kreysta vatnid út. Er bladran þur, má smyrja hana med smyrslum þeim, sem gétid er um í undangángandi §, um mjó-sárin, og láta svo sárid gróa af sjálfu sér. Komi dauði undan reidþum, sem þeckist á því, ad skinnid verdur hardt, og líkist brendu ledri, skal madur daglega smyrja blettinn med svínafitu eda svidafloti; randirnar á daudablettinum eru þá vanar ad losna, og má þá burtklippa þær; þannig heldur madur nú áfram, þartil bletturinn allur er burtnuminn. Stundum ber þad vid, ad greftur safnast undir blettinn og losar hann; fari svo, verdur ad skéra burt allann hinn harda holdsúa blett; í sárid stráir madur nú esku af brendum gomlum skóbótum, hreinsar þad frá greftinum, og þá grær þad brádum. Sé holdfúa-bletturinn fastur allt um kríng, má losa hann med feiti og burtskéra, og strá svo í sárid ádurnefndri esku af gomlum skóbótum.

Þad ber opt vid ad sitan og kjøtid undir skinninu, skadast af ádurtøldum meidslum undan hnokkum og reidíngi, grefur þá í ollusaman, og finnst til graftarins undir skinninu, þegan bólgan er horfin; þad er naudsýnlegt strax ad géra skurd til ad uthleypa greftinum, því annars gæti skéd ad grofturinn sigi nidur á milli vodvanna; skurdur sá má gjørast ad nedanverdu, svo grofturinn géti frítt útrunnid; ad því búnu skal madur med fíngrinum þreifa inní sárid, til ad vita hvort þar eru ei auka-holur, hverjar, ef finnast, strax eiga ad uppskérast, þvi annars mætti ské ad vogurinn safnadist þar og æti meira um sig. Þegar

blódið hættir að renna úr skurðinum, skal þvo sárið vel umhverfis með volgu vatni, og nú leggur maður hamp yfir sárið; næsta dag hreinsar maður blóðlifrarnar úr sárinu, og þekur það aptur með hampi, sem sé smurður með smyrslum af Spansgrænu (pulveriseret Grönspaan) Mastixgúmmi, Vírak, Altheasalvi, Poppesalvi, Lauberjaolíu og Terebintín-olíu, 2 lóð af hverju; smyrsli þessi brúkast daglega, þartil sárið er gróið, en sárið verður ætíð að haldast hreint.*) Flest sár á baki hesta gróa við smyrsli þessi, en þó má gæta þess, að maður ei þjappi hampinum svo ofaní sárið, að vogurinn ei nái að fljóta út; géti maður, ámeðan á græðslunni stendur, hlíft hestinum við brúkun, gróa meiðslin ennþá fljótara; verði ei hjá því komist að hesturinn sé brúkaður, þá má hvorki leggja reiðíng né reiðtygi á meiðslin, því við það vesna þau. Sé nú sárið orðið gamalt, og þar séu komin mörg djúp mjó-sár, sem hafa etið um sig allt niður að brjóski og beinum, er ei annað ráðlegra, enn koma hestinum til duglegs Hestalæknirs, ef þess er kostur.

## § 7.

### Um Bógmagnleysi (Bovlamhed).

Merki á sjúkdominum eru: þegar hesturinn er teimdur áfram, snýr þann fætinum í hálfhríng, og lyptir þeim fæti

*) Bændur, sem bágt eiga með að fá smyrsli þessi, géta búið sér til önnur álíka góð af smáskorinni Blóðrót, sem sjóðist í nýu ósöltuðu smjöri; þegar smjörið er síað frá, má blanda þarí dálitlu af Kamfóru-dupti, og brúka svo smyrsli þessi ístað hinna, sem hér að ofan er umgétið.

aldrei eins hátt og þeim heilbrygda; sé hesturinn látinn gánga yfir þrepskuld edur trébút, tekur hann ecki fótinn upp, heldur dregur fótinn eptir sér; sama er tilfellid þegar hesturinn gengur aptur á bak. Séu nú engin merki til bólgu ofantil i bógnum eda nedantil í fætinum vid knéd eda hófskéggid, og hófurinn er lýtalaus, þá er sjúkdómurinn án efa Bóg=magnleysis; bada skal þá allann bóginn 2svar sinnum daglega med þessu medali: tak ½ pott brennivíns, uppleys þari ½ lód af Kamfóru og blanda þar samanvid 2 lódum af Terebintín=olíu; bada skal bóginn, sem nú var sagt, 6 til 8 sinnum daglega, og batni nú kvillinn þarvid, þarf hesturinn eigi meiri vidgjordar vid. Hjálpi þetta ecki, má brúka þessa olíu: 4 lód af Línolíu, 1 lód af Svale=olíu, 3 qvintin af Steina=olíu (oleum petreæ) 1 lód af Sinasmyrslum (ungv. nervinum) 1 lód af Regnorma=olíu, 3 lód af Terebint=in=olíu og 3 lód af Spik=olíu (oleum spicæ) og 2 qvintin af Victril=olíu.*) 5 eda 6 daga í rennu smyr madur bóginn med smyrslum þessum og læknast Bóg=magnleysid þá næstum æfinlega. Væri sjúkdómurinn nú svo gamall, ad smyrslin ecki gjordu gagn, er bezt ad gjora skurd og setja baunir á herdabladid, sem séu látnar liggja 12 til 14 daga, og þareptir burttakist; sé magnleysid komid af útvortis orsökum, mun þad batna þarvid.

*) Vágt mun bændum sem optast ad fá þessi ágætu smyrsli, og má þá í stad þeirra brúka annadhvort Terebintin=olíu, Einirberja=olíu, Opodeldoc, sterkt Kamphóru=brennivín eda þá sambland af 2 pelum af Rommi og 4 lódum af Lýsissápu.

Bóg-magnleysid af innvortis orsøkum er opt bágt ad lækna; hestar fá opt eins og manneskjurnar Iktsýki, og þegar svo ber vid, ad frumefni Iktsýkinnar legst ad einum lim líkamans, kémur þaraf magnleysi, sem stundum raunar læknast, en kémur þó opt aptur; þad vildi því verda bændum ofdýrt ad upptelja mørg og dýr medol vid þessu, sem mjøg er hæpid ad læknast géti; betra er þá ad láta náttúruna ráda, sem opt med tídinni rædur bót á þessu, sé hestinum hlíft vid mikilli brúkun. Opt hefir þad ad gódu komid ad setja stórann hánka á bóginn, hvarvid sjúkdómsins frumefni fær útgáng, og er þá bezt ad láta hánkann sitja sem lengst.

§ 8.

## Um Sleidur undan gjørdum.

Þegar sár koma á brínguna, magann eda sídurnar, undan gjørdum, þá verdur ad þvo þau med køldu vatni, edur og brennivíni med sápu; betra medal er þó ad taka 3 lód af Kamfóru-brennivíni, ½ pott af vatni; þetta skal nú hrista vel saman, og smyrja bólguna med því 3svar sinnum daglega. Som er adferdin þegar meidslin eru á brínguni. Komi holdsúi undan gjørdum, skal ad øllu medfara, sem fyrr er sagt um dauda í sárum. Komi bólga, svo þar votti fyrir vog, verdur ad skéra í bólguna og úthleypa vognum; þó skal þetta ei gjørast, fyrrenn líkindi eru til ad grafid sé í bólgunni, finnst þad bezt med því, ad fara fíngrum um bólguna, og finna hvort lint er fyrir; skurdinn skal ætíd géra svo stórann, ad vogurinn óhindrad géti útflotid. Stundum ber þad vid, ad

kvap kémur undan gjörðum, er það ætíð verkjalaust, og verður þó aungvu að síður að skéra það burtu; það gjörist svo, að maður skér krossskurð í skinnið, hvar kvapið er, og flær það svo laust frá skinninu og holdinu svo vel sem verður, þareptir saumast skinnið saman með skerkumþræði, að undanteknum neðri enda krossskurðsins, hvar vogurinn má óhindrað géta runnið út; þareptir þvær maður sárið með köldu vatni. Sé þetta á sumardegi, þá hestar gánga úti hegum, er bezt að rjóðra Terbintínolíu á sárið, svo mýbit síður setjist á það. Aðgætandi er, að maður ei skéri neitt burt af skinninu; af hvörju kann að koma sár, sem nuggast af gjörðunum.

§ 9.

Um Kýli framaná bríngunni.

Framantil á bringunni kémur stundum bólga, og er þá optast vant að grafa í henni; til þess að flýta fyrir greftrinum, skal rjóðra á bólguna gæsafeiti, svínafloti eða ósoltuðu smjöri, þartil bólgan verður linari og vögurinn grefur út; opna skal þá kýlið og hleypa út greftrinum; sjái maður nú um, að sárið grói ekki offljótt, og gleymi eigi að rjóðra svínafloti á bólguna, vatir ei lengi áður kvilli þessi grær að heilu. Stundum verður bólgan svo mikil, að hesturinn á bágt með að gánga, en fari maður eins að, og nú var sagt, er engin hætta búin.

§ 10.

Um Hnéskvap (Knæsvamp).

Eptir biltur, högg eða barsmíði, kémur stundum bólga í knéð og framfótinn, sem opt verður að Hnéskvapi;

lækna má þetta með áburði úr 1 lóði af Spansflugum og 1 lóði af Evphorbium-gúmmi og ½ lóði af Operment (auripigmentum); þetta allt skal melja og blanda með 2 lóðum Terebintin-olíu og 4 lóðum svíðaflots*); með smyrslum þessum makar maður kvapið einusinni á dag í 3 daga í röð; loksins lætur maður smyrslin liggja, þartil þau detta af af sjálfu sér, optast losna þá hárin af með, en strax sem hárin aptur vaxa, verður að bera á kvapið að nýu; hversu opt smyrslin skuli á bera, er ei gott að ákvarða, því það er mikið komið undir stærð bólgunnar.

## § 11.

### Um Sinahnút í framfótunum (Seneklap).

Opt verða hestar haltir af því, að stóra sinin, sem beigja á framfæturnar, bólgnar; þetta skal svo lækna, að taka á 1 pund af muldri rauðkrít, 2 lóð af Salmíaki, og gjöra af því smyrsli með ediki; þessu skal nú maka á þær bólgnu sinar, og láta sitja utaná hérum fíngurs þykt; þareptir skal binda með vaðmáls lengjum frá hófskeggi uppað knénu, sem daglega séu vættar í ediki, hvari Salmíak er uppleyst (2 lóð í ½ potti); þettar þénar til að mýkja sinina. Umbúðir þessar lætur maður nú liggja í 2 daga, og leggur, að þeim liðnum, annað nýtt ístaðinn; þannveg, sem nú var sagt, skal aðfara þángaðtil kvillinn er læknaður. Ef kvillinn er gamall, er hann verri viðgjörðar, þó má brúka meðalið

*) Ístað þessa má brúka sunnur aðfengnari smyrsli, tilbúin að jöfnum pörtum af Terebintínolíu, Lýsíssápu og Rommi.

14 daga edur 3 vikur, en skyldi hann þá ecki fara batnandi, má brúka smyrsli þau, sem um er gétid í § 10, og bera þau á 2svarsinnum daglega; en sjái madur ad bólgan er minkud, þá smyrslin eru afþerrud, verdur ad halda áfram med þau. Hjálpi þetta ecki, væri gott ad bera á bólguna Sápubalsam eda Kamfóru-brennivín med Terebintin-olíu. Rohlwes rædur til at gjøra plástur af 2 lódum af Spanskflugnapúlveri, 1 lódi af Mastixgúmmi, Colophonium, Safranplástri og Terebintinolíu, þetta brædist med 6 lódum af biki, þartil þaraf verdur plástur. Plástur þessi er einka gott medal vid gamalli bólgu og sina-hnútum; bezt er ad bræda plásturinn í leirpotti, og ádurenn hann storknar ad fullu, skal hann ábera med þartil gjørdum spada, svo hann géti þrengt gégnum hárid og skinnid; því beri madur hann einúngis á hárin, er þad til ónýtis, og sé plásturinn ofheitur, brenna hárin af; loksins þá öll bólgan er byrgd af plástrinum, bindur madur um med ull og léreptsrium, og lætur svo plásturinn sitja þartil hann fellur af af sjálfum sér; leggja má plásturinn á í annad sinn, skyldi þad fyrsta ei hjálpa.

## § 12.

### Ef Kjúkulidurinn fer úr lidi.

Þessi eru kénnimerki, þegar kjúkulidurinn er genginn úr lidi: hesturinn tillir nidur tánni, og kjúkulidurinn er boginn framávid, og þad er vant ad vidvara, þó hesturinn stígi á allan hófinn; þegar hesturinn gengur, hrærist efri partar fótarins roskliga; nockrir hestar standa þá í

allan hófinn, en adrir tilla einúngis nidur tánni, en í bádum tilfellum beigist kjúkulidurinn ecki til baka, sem vant er, þegar hesturinn er óskadadur. Lidamótin skal nú bada med medali þvi, sem um er talad í § 8, og samanstendur af Kamfóru, Blý-extracti og vatni; badningunni skal áfram halda, þartil hestinum er batnad. Þegar lángt er sídan úr lidi géck, er betra ad búa til smyrsli af 8 lódum af Regnorma-olíu, 4 lodum af Sinasalvi og Steinolíu, samt 2 lódum af Terebintin-olíu*).

§ 13.

## Um Kvaphnút á bógnum (Stollsvamp).

Ofantil á bógnum, þar sem kallast albogalidur, kémur stundum kvilli sá, sem kallast Kvaphnútur albogalidsins (Stollsvamp). Í fyrstunni merkist bólga, vegna hvorrar hesturinn gengur med beinann fótinn, en sem þó optast dreifist; ef madur badur hann med koldu vatni; en þegar hún er horfin, er þar þó opt hnettótt bólga eptir á alboganum, sem er full med gulu vatni; bólgan verdur stundum ad hárri bledru, sem er full med vatni; þegar svo er, má bledruna framkreysta med vinstri handar þumalfingri og sleykjufingri, og stinga svo á henni med beyttum knífsoddi; þegar vatnid er útrunnid, brúkast smyrsli þau, sem talad er um undir Hnékvapi, og þarmed smyr madur kvapid nockrum sinnum daglega, og lætur þad ad lokunum hánga vid svo

*) Þeir sem eigi hafa þetta, géta brúkad áburumgétin smyrsli af Lýsissápu, Terebintin-olíu og Rommi.

lengi, sem þad vill tolla og ecki dettur af af sjálfu sér; þannveg læknast þá kvapid á stuttum tíma.

Sé kvapid mjøg gamalt, á ad taka Spansflugur, Sublimat (Mercurius sublimatus corrosivus) Operment (auripigmentum), eitt qvintin af hverju þessara, ½ qvintin af Evphorbium gúmmi, þetta blandast nú saman vid 3 lód af svínafeiti.*) Þegar smyrslin nú detta af, og hárin fara ad vaxa aptur, þá verdur ad bera smyrslin á í annad sinn, og halda þessu áfram þángadtil kvillinn er læknadur. Stundum finnst á þessum stad hardur hnútur, sem inniheldur hrognum líka kássu; þá er ecki annad betra rád, enn burtskéra hnútinn med beyttum knífi.

Þad ber opt vid, ad Bóghnútur kémur á skablajárnada hesta, þá er bezt ad láta hesta þá, sem hafa þad, ecki vera skablajárnada, þegar því verdur vidkomid. Stundum er kvaphnúturinn mjøg stór, eda hann er svo hardur, ad eigi verdur læknadur edruvísi, nema madur gjøri krossskurd, flái skinnid frá og skéri burt kvapid; lappana leggur madur nú saman, en klippir svomikid af þeim ad þeir falli saman; efri og þverskurdinn lætur madur gróa saman, en nedri skurdurinn á ad vera opinn til þess ad grøfturinn géti útflotid, og þarf nú eckért annad enn ad þvó sárid med køldu vatni. Komi holdauki í sárid, má strá í hann brendu álúni, þartil hann hverfur. Nockrir brúka smyrsli af 2 lódum Pipar og Evphorbíum gúmmi, og blanda þarmed Spik-

*) Ístad þessa mætti í naudsfalli brúka Opodeldok.

olíu og Terebintín-olíu, 2½ lód af hvorri þeirra, og 1 qvintin af Saltpétursýru; med áburdi þessum makar madur kvapid 3svar sinnum daglega.

§ 14.

Um Kýli á hófskegginu (Wolf).

Kvilli þessi kémur i hesta og folold, sem gánga úti i vætum, eda i snjó á vetrardegi, þegar þýdur gánga. Byrjar hann med bólgu um hófskéggid, og med svo sárum verki, ad hesturinn ecki þolir ad tilla nidur fætinum; engin rád eru til ad stilla verkinn, og verdur þvi ad sjá til, ad sem fyrst grafi i bólgunni; er þá bezt ad flýta fyrir greftrinum med því ad leggja kjæstann hákall vid bólguna, og binda um svo tolli, edur ad maka bólguna med svidafloti, eda annari feiti. Þegar gat kémur i bólguna, sem optast er um kríng hófskeggid, þá rennur þar optastnær út illa lyktandi groftur, sem opt etur mikid af skinninu burt; losni þad ei frá af sjálfu sér, verdur ad klippa skinnid af, sem laust er, og bera á sárid þad ádur umgétna Grænasalve, edur og, ef þetta er ecki til, þá hreint lýsi eda svidaflot.

§ 15.

Um Bólgu í Krónlidnum.

Lidurinn á milli stóru kjúkunnar og hófhvarfsins kallast Krónulidur; skéd gétur ad lidamót þessi skékkist i lidnum, og þá bólgna bond þau, er lidnum samanhalda; þetta þeckist af bólgu, sem kémur beggja megin vid lidinn, svo ad hesturinn verdur haltur; stundum batnar

heltin, enda þótt bólgan vaxi, og er það slæmt, því batni hestinum eigi í byrjun kvillans, er sjaldan bata von. Strax sem til bólgunnar merkist, er bezt að baða liðamótin með smyrslum af 8 lóðum af Terebintin-olíu og 2 lóðum af Kamfóruspiritus, sem vel á að samanhristast, nær brúka skal; hafi maður nú brúkað þetta í 5 til 6 daga, má hætta um sinn, og brúka svo lýsi eða svíðaflot í 3 daga í senn, að hverjum liðnum, hitt fyrra meðal skal brúkast á ný; ekki má hætta, þó hárin nuggist af, heldur halda áfram, þartil kvillinn er læknaður. Hjálpi nú þetta alls ekki, má brúka smyrsli þau, sem nefnd eru við Hnékvap, og dugir þá sem optast; en verði það eigi þaunveg unnið með þolinmæði, þá brenna Hestalæknarar með heitu járni, hvað ekki er annara meðfæri.

## § 16.

### Um Hófætu.

Kvilli þessi er ofan til við hófinn, kémur þar vilsa, svo hárin detta af; þetta orsakast af óhreinindum og kémur af því, að fæturnir verða óhreinir, þegar hesturinn gengur í mýrum, og þorna svo með skarninu á. Bezt er að þvo fætur hestsins í köldu vatni, og þareptir baða þann veika lim með pela af vatni, hvarí uppleyst eru 4 lóð af Blý-extracti.

## § 17.

### Ef hestar stíga sig.

Það ber opt við, að hestar, sem innskeifir eru eða illa járnaðir, fá kjúku-meiðsli af því, að þeir stíga sig;

losnar, þá opktast stór flís af hófnum, og verdur ad klippa hana burtu, því annars safnast mold og sandur í sárid; þareptir skal bada sárid med vatni og bleki þartil þad grær.

### § 18.

### Um Kjúku-meidsli.

Þau koma annadhvört af meidslum á kjúkunni, ella og af greftri í fætinum, sem útbrýtur á krónunni. Skadi þessi er slæmur, og bezt er, þegar verdur, ad senda hestinn til Hestalæknirs, en verdi þad ei, má gjora sem nú segir:

Sé kjúkan særd, verdur ad skéra þad stycki af hófnum, sem laust er, því annars gétur þad ei gróid; hafi sárin etid um sig vidar í kjúkunni, verdur med blýkanna ad ransaka stærd og dýpt þeirra, og brenna þau svo allt ad botni med glóandi járni; ef fleiri smá got finnast, verdur ad brenna þau öll; ecki þarf neitt ad brúka vid hin brendu sár, því þau gróa af sjálfu sér. Viti madur ei fyrir víst, hvört sárin eru komin af meidslum í kjúkunni, þá verdur ad géra skurd nedantil vid sárid, svo madur géti komist eptir orsökinni; finnist þar greftur, er bezt ad taka svo mikid stykki af hófnum, sem sárid hefir etid um sig. Í sárid hellir madur samblandi af 4 lódum af brennivíni og 1 lódi af Terebintin-olíu; yfir skurdinn lætur madur hamp, og bindur fast um fótinn, þarmed grær nú sárid í kjúkunni, þó stykki af hófnum sé burtskorid.

Finni madur aungvann groft í sárinum, er ad því vísu ad gánga, ad kvillinn er kominn af kjúkumeidslum; stundum kémur villikjet í sárid, og skal þad burtnema

med glóanda knísi edur og med beyttum knísi, sé madur eigi vanur vid ad brúka brennijárnid; þó er þá alltadeinu naudsynlegt ad hafa brennijárnid vid hendina, til ad brenna skurdinn eptirá.

Verst eru kjúkumeidsli, sem komin eru af greftri ofantil í fætinum, þá vogurinn hefir grafid sig nidur med sinunum allt nidurad brjóstki hóffins innaní hófnum, og etid þar um sig. Sár þessi eru illvidgjørdar og stundum ólæknandi: Taka skal blýkanna og ransaka gáng sáranna, stundum er ómøgulegt ad komast nidur ad botni þeirra, þá þau eru bogin, nema madur gjøri skurdi, svo ad verdi komist, med þeim hætti ad madur skér ofantil ofaní kjúkuna nidurávid, og er grofturinn þá vanur ad renna út; skurdur skal vera fíngursbreidur, og med þad sama skér madur hornvegginn burtu allt nidur ad skeifunni; med álíka breidum skurdi skér madur nú gégnum brjóstkid, til ad komast ad botni sársins. Þad væri advísu mikid gagn, ad brenna botn sársins med járni, en med því ad opt er bágt ad komast ad øllum smáholum í sárinu, má brúka hamp eda táid lín, vætt í skeidvatni, sem leggist í sárid. Til ad stilla ofmikla blódrás, sem hindrar mann frá ad géta skorid nógu vel, er vænt ad binda sterku bandi ofantil um fótlegginn, því þarvid minkar rás blódsins nidurí fætinum. Adgætandi er og, ad ei sé skorid ofmikid af kjúkunni, því þá grær sárid miklu seinna; í sárid lætur madur drjúpa nockra dropa af vatni, hvarí Victril er uppleyst (3 lód af Victríl í 1 potti vatns), og grær þad þá um sídir, þó opt gángi tregt.

## § 18.

### Um nagla og annad, sem stúngist getur ofdjúpt uppí hófinn.

Þegar hestar hafa stúngid sig í hófinn, skal strax útdraga þad sem stíngur hestinn, hvört nagli er eda hvad annad; þareptir skal stækka gatid med oddmjóum og beyttum knífi, því annars safnast grosturinn, etur um sig, og gjörir allt verra; þareptir hellist brennivín í holuna og stoppast med hor, og kúamykja leggst innaní rúr utanum fótinn. Sé grostur kominn í fótinn, verdur ad tálga af hófnum, þartil komid er innad greftrinum. Þegar kjöt vex fram, þar sem hófurinn hefir verid tálgadur, verdur ad strá á þad kalki, þartil hófurinn vex fram yfir þad. Sé naglinn eda hvad annad, sem var í hófnum, brotid edur á annann veg svo litid, ad eigi sjáist merki til þess, er bezt ad tálga af hófnum med knífi, þartil til holunnar sést; inní holuna borar madur þá med beyttum knífsoddi, þár til vogurinn útrennur.

Séu hestar haltir eptir járnun, þá skal skeifuna undandraga, verdur þá ad gefa gaum ad öllum neglunum, og sjáist á einum eda fleirum þeirra svartir blettir á oddinum, sem kémur af vognum, verdur þá ad uppbora gatid, uns komid er ad upptökum graftarins, og þareptir medfara, sem fyrr er sagt. Géti madur ei á sagdann hátt fundid á hverjum nagla hesturinn hefir blódjárnast, á hófurinn ad klípast med kliputaung umhverfis, og má þá nákvæmlega adgæta vid hvört noglafar ad hesturinn kveinkar sér; þetta skal svo uppbora, uns vart verdur vid greftinn. Adgætandi er hér, þá heltin

er gomul og grefturinn hefir etid um sig, ella ogsvo grafid út vid krónuna (kjúkuna), er bezt ad skera allt af hófnum, sem etid er af greftrinum; forsómi madur þad, grær skadinn vart, þar grofturinn etur vídar um sig; um sárid skal binda einusinni daglega med samblandi af 4 lódum brennivíns og 1 lódi Terebintin-olíu.

Þad ber og stundum vid, þegar innri rond skeifunnar þryckir á hófinn, ad hestar verda haltir þaraf, verdur þá ad draga skeifuna undan, og sjá til ad skéra svo mikid af hófnum, ad holt sé undir skeifuna innan til.

## § 20.

### Um Hóf-særi.

Hestar sem ójárnadir eru, verda opt sárfættir, þegar þeir gánga á grjóti; þeckist þad á því, ad hesturinn tillir nidur tánni; taki madur á hófnum ofantil, er hestinum þar heitara enn vant er. Strax sem merkist til ad hestar þannig verda sárfættir, er naudsýnligt annadhvert ad járna þá, því annars grefur med tídinni í hófnum, og verdur þá ad meiri skada, eda þá ad gjöra 2 skurdi beggjamegin vid hóf-túnguna svo djúpt ad blædi, og strax sem blódrásin stodvast, á ad binda um fótinn kúamykju, og fara því fram þartil allt er gróid.

## § 21.

### Ad járna hesta.

Jafna skal hófinn ádurenn járnad er, svo skeifan falli allstadar vel vid, þó er þad ei rétt sem margir smidir gjöra, ad tálga ofmikid af hófnum, einkum nálægt hóf-

túngunni, því þaraf verda hestar þá opt sárfættir, þegar á grjóti gánga, og það er ad aungvum notum. Skeifan á ad vera öldúngis slétt, svo hún falli allstadar vel við slétta fjöl; það er ecki rétt, sem sumir gjöra, ad beigja hælinn á skeifunni, því það gjörir hestinum framar íllt enn gott. Naudsýnlegt er ad tálga allar ójöfnur af hófnum, sem standa framaf skeifunni, því annars gétur það hægliga skéd, ad hófurinn brotni, ef hesturinn rekur tána í eda hrasar. Ecki er gott ad hafa heststónagla mjög digra, því þá hættir méira vid, að þeir risi hófinn og hesturinn blódjárnist.

## § 22.

### Um Bólgu nedaná kvidnum.

Til ad lækna kvilla þenna, má þetta medal brúkast: blanda skal saman 8 lódum af Harpix med 4 lódum af Brúnellusalti (sal prunellæ) og 1 lódi af Brennisteins-balsami (gratia probatum); af þessu skal gjöra 3 pillur, og géfa svo hestinum eina pillu hvörn 3ja dag fastandi; þegar brúkadar eru 3 pillur, má bída í 8 daga, og sé þá, ad þeim lidnum, bólgan eigi horfin, má aptur gjöra sem í fyrra sinn. Ecki má brúka þetta vid fær-leika, þó bólguna hafi, fyrrenn þær hafa kastad. Séu hestar magrir, eda bólgan komi eptir sjúkdóm og lángferdir á lúnum hestum, má brúka dupt af Vélands-urt (rad. Valerianæ) Entian-rót (rad. gentianæ) og Hvannarót*), jafnt af hvorri, og géfa hestinum 2 lód

*) Allar þessar urtir vaxa á Íslandi.

af þessu dupti 2svar eda 3svar sinnum daglega; gott er og ad setja baunir framan á brjóstid.

## § 23.

### Um Nabla-kvidslit á folöldum.

Þegar bólga kémur í nablann á fololdum, af því ad idrun falla þar út, kallast þad Nabla-kvidslit. Madur leggur folaldid nidur, og um poka þann, sem er utanum nabla-kvidslitid, bindur madur sterku seglgarni svo fast sem verdur; eigi þarf þá meira, ef þetta er rétt gjort.

## § 24.

### Um Mar á hestum.

Þegar hestar merja sig á bógji, lærum eda annarstadar, sem skéd gétur, þá þeir gánga útum þraungvar dyr á hesthúsum, eda detta á svelli, hellum eda grjóti, og halta þareptir, þá er eigi annad betra rád enn bada marid optsinnis med koldu vatni, edur og bera á þad Kamfóru-brennivín eda Terebintín-olíu.

## § 25.

### Um Strídleika i lærum hesta.

Til kvilla þessa geta verid 3 orsakir: hin 1sta er sú, ad vodvarnir géfa eptir og útþenjast um of, svo hesturinn verdur haltur; þad þekkist á því: ad hesturinn, sem þó stendur i fótinn, dregur lærid eptir sér, og lendin er ad innanverdu þrútin; þrísti madur á bólgu þessa, verdur hesturinn óþolinnmódur og tekur upp fótinn.

Þetta læknaſt með því, að baða bólguna með Kamfóru-ſpiritus og Blývatni, blönduðu ſaman til helmínga, 3ſvar ſinnum daglega. Verði því viðkomið, er bezt að láta heſtinn vaða í vatni allt í taglsrætur, og ſvo ſtanda þar ¼ part úr kluckuſtund, eður þá baða bólguna iðuglega með köldu vatni. 2) Magnleyſi gétur komið í fótinn, þegar liða-böndin, ſem ſamanhalda liðnum, géggaſt; þegar heſturinn þá gengur, ber hann raunar neðra part fótſins náttúrlega, en fætinum gétur hann þó aldrei ſtígið jafnlángt fram ſem þeim heilbrygða; opt er og bólga um liðamótin, ſem altíð er heit. Baða ſkal þann magnlauſa fót með Kamfóruſpiritus, Terebintin-olíu og Sápubálſami, eða þá öllu þeſsu blönduðu ſaman, og batni ei þarvið eptir 8 daga, verður að maka fótinn með olíum þeim, ſem um er talað í § 7 og eiga-við Bóg-magnleyſi. 3ja magnleyſið gétur orſakaſt, þegar litil ſin, er í miðjunni heldur liðnum ſamfeſtum, er ſundurriſin; bágt er að vita, hvert ſinin er ſlitin eður eigi, og ſé ſvo, eru þarvið engin ráð, því ſin þeſsi vill aldrei gróa ſaman, og er þá ei annað fyrir enn láta ſlá heſtinn af.

Auk þeſsa gétur bæði Ikt og Krampi orſakað heſtum magnleyſi, því báðir þeſsir ſjúkdómar leggjaſt opt í fæturnar og orſaka magnleyſi. Sé nú Ikt orſök þartil, er bezt að ſetja hánka í lendina, og að öðru falli, ſé það Krampi, þá að bera Kamfóru-olíu, Terebintin-olíu eða brennivín á lendina, og géfa innvortis dupt af Vélandsurt, Hvannarót og Meiſtarajurt, jafnt af hvorri; af þeſsu dupti géfiſt 2 lóð 3ſvar daglega.

§ 26.

Um Knút á Konúngsnefslidnum (Spat).

Fáir af bændum þeckja kvilla þenna, og eru þeir því opt í útlöndum sviknir af hesta-kaupmönnum á hestum þeim, er hafa hann. Innanverdt á konúngsnefslidnum merkir madur ærli, sem í fyrstunni er mjög lítid, þetta kalla hestalæknarar Spat; stundum gétur ærlid verid á stærd vid hænuegg, og skjaldan finnst sjúkdómurinn í bádum fótunum, stundum eru hestar haltir þaraf, og aldrei er rádlegt ad kaupa hesta, sem hafa kvilla þenna. Ecki merkist ætíd til ærlisins í byrjuninni, er hesturinn þá samt haltur og magnlitill í apturfæti þeim, hvar hnúturinn seinna meir sýnir sig; hesturinn tillir nidur tánni, þegar hann stendur og haltrar fyrst er hann fer á stad, en er hann hefir gengid nockra stund, ber eigi meira á heltinni. Hestakaupmenn í útlöndum brúka þad rád vid hesta þessa, þegar þeir vilja koma þeim út, ad þeir láta þá aldrei standa kyrra, og ber þá ei á heltinni, svo lengi hesturinn er á hreifíngu, en undir eins og hesturinn hefir hvílt nockra stund, ber strax á heltinni þegar hann fer á stad. Kvilla þenna er illt ad lækna, og er þad einasta rád ad brenna hinn veika stad, og er þá bezt, þegar því verdur vidkomid, ad koma hestinum til Hestalæknirs; en verdi þad ei, þá er bezt ad brúka smyrsli þau, sem rádin eru vid Kvaphnút § 13.

§ 27.

Um Ærli á Konúngsnefinu.

Ærlid er annadhvert stórt eda lítid, og kémur eptir mar undan höggum eda biltum á konúngsnefid,

ellegar það orsakast af innvortis orsökum. Strax sem verdur vart vid það, skal maka það med Kamföru-brennivíni eda Sápuspíritus; batni það ei þareptir, skal maka það med smyrslum þeim, sem ádur eru rádlegd vid Hné-kvapi, 2svar sinnum daglega. Som er adferdin, komi kvap nedantil vid konúngsnefid á hásinina, er stundum getur orsakad ad hestar verdi haltir. Séu kvillar þessir gamlir, er það einasta ráð ad brenna þá med brennijárni.

§ 28.

Um Bólgu í apturfótunum.

Bólga, sem stundum kémur í annann eda báda apturfætur, byrjar optast ad nedanverdu, og færist svo uppeptir; kémur hún af því, er hestar standa lengi kyrrir; sé bólgan litil, hjadnar hún eptir badning med koldu vatni, en sé hún stærri og nái hærra uppí fótinn, er bezt ad setja nockrar baunir í fótinn, og dreifir það optast bólgunni. Líka er gott ad gefa hestinum pillur þær, er um er talad vid Bólgu undir Kvidnum § 22. Sé bólga í bádum fótum, verdur ad setja baunir í þá báda. Stundum kémur bólga í bædi konúngsnefs-lidamótin, hana skal bada 3svar sinnum daglega med smyrslum af Blyextracti 4 lódum, Kamföru-brennivíni 2 lódum og ½ potti af vatni. Opt dreifist bólga þessi brádum, en kémur þá aptur eptir nockra daga; til ad hindra þetta, er eckért betra ráð enn setja baunir í fótinn, og er þá brádum bata von.

§ 29.

Um Vilsu í Kjúkulidnum.

Þegar graftar vatns-vilsa safnast á kjúkuna uppundir hárunum, þá kémur optast bólga í fótinn; stundum etur vilsan meira um sig umkríng lidamótin, og færist uppeptir fætinum; naudsýnlegt er þá ad afklippa öll hárin, og þvo þá veiku stadi, hvar vilsan útrennur, nockrum sinnum daglega med vatni, hvari Victríl er uppleyst (nl. 4 lód Járnvictríl í 1 potti vatns). Sé bólga í fætinum, er naudsýnlegt ad setja baunir, og géfa hestinum Laxérpillu, sem tilbúin sé af 2ur lódum af Alúni, 2 lódum Vinsteinsrjóma (Cremor tartari) og 1 qvintini af Jalapparót; þetta allt skal nú steyta í dupt og blanda med sápu, og gjora þaraf pillu; ad 8 dogum lidnum skal aptur adfara, sem nú var sagt, og ei gleyma ad þvo hestinum med vatni því er ad framan stendur. Bólgan, sem kémur í fótinn, hjadnar af sjálfu sér, þá vilsan er hætt ad renna, en verdi þad ei, þá skal brenna hestinn, þar sem bólgan er, med brennijárni. Komi villikjot þarsem vilsan útrann, verdur þad ad burtnema med glóandi knífi.

§ 30.

Um Stertbrot og Taglveiki.

Þegar sterturinn brotnar, vex hann optast saman af sjálfum sér, en verdi þad ei, og komi greftur, svo grafi í stertinum lángs med rófubeininu, er bezt ad ofskéra stertinn, og stødva blódrásina med brennijárni.

Kjetærli kémur stundum undir taglid, og verdur þad þá burt ad skéra, svo eckért verdi eptir, og þaráofan strá hreinu kalki i sárid; vogurinn má daglega þvost burt med volgu vatni, og læknast þad þá brádum. Stundum rennur vatnsvilsa útaf stertinum, og verdur ad stórum skurfum i taglinu; þetta er slæmur kvilli og næmur, þar heilbrygdir hestar géta fengid hann af þeim veiku, og líkist hann mikid kláda. Kvilli þessi læknast med somu medolum, sem brúkud eru vid kláda og skurfum.

## § 31.

### Um Kýli.

Þau byrja med bólgu undir skinninu, svo þad útþenst, og bólgan er heit átoku. Bólgu þessa skal maka 2svar sinnum daglega med svína eda svida-floti eda og ósoltudu smjori; verdi bólgan nú lin átoku, er þad merki til, ad grafid er i kýlinu; bezt er þá ad stinga á því med mjóum hnífsoddi og útbleypa vognum; stúnguna er bezt ad gjora nedantil, svo grofturinn betur géti útrunnid. Maka verdur kýlid daglega med ádurtoldum smyrslum, og sjá til ad opid ecki lokist fyrrenn kýlid er gróid nedanfrá.

## § 32.

### Um Kláda á hestum.

Strax sem vart verdur vid kláda, er bezt ad skilja þá veiku hesta frá þeim heilbrygdu, ef því verdur vidkomid, einkum má gæta ad þessu á vetrum, þegar hestar

standa inni, því annars veikist hvor af ödrum. Pad er mikid undir því komid ad fódra hesta vel á vetrum, sem þenna sjúkdóm hafa, því slæmt hey er þeim mjög óhollt og gjörir kvillann verri. Ecki er þad gott, sem margir gjöra, ad taka blód hestum þeim er kláda hafa, heldur skal maka þá 3svar sinnum daglega med 2 lódum af kláda-smyrslum, sem þannveg tilbúast: "tak Brennisteinsdupt 4 lód, grænasápu 8 lód, hrær þetta saman og blanda þarvid svo miklu af vatni ad úr því verdi mjúk smyrsli"; med þessu skal maka kládann, sem fyrr er sagt. Sterkari verdurþessi áburdur, ef madur til 8 lóda af því ádur umgétna bætir 1 lódi af Hellebórusrótar dupti (veratrum album). Smyrslin lætur madur nú sitja á þeim stödum, hvar kládinn er, uns þau hinn þridja dag eru þveigin af med volgu sápuvatni; hjálpi þetta ecki í 1ta sinni, smyr madur kládann ad nýu med áburdi þessum, og fer svo ad sem nú var sagt, uns kládinn er læknadur.

Gott er ad sundleggja hesta, sem kláda hafa, í sjó, en adgætandi er, ad þad má ei ské nema á sumardegi, þegar hlýtt er í sjónum. Margir setja baunir á kvid hestsins, og er þad einka gott. Áhöld og reidtýi, sem brúkud hafa verid, verdur ad þvo í sjó eda sápuvatni, því annars gétur skéd, ad adrir hestar verdi veikir af þeim; er ástundum verra ad fyrirbyggja þad, enn ad lækna sjálfan sjúkdóminn.

Nockrir brúka vid kláda á hestum smyrsli af svínafeiti og Terebintinu, og eru þau líka einka góð; en optast er þó nóg ad maka þá stadi, hvar kládinn er á,

með Lÿſisſápu, og þegar það hefir gjört verið í nockra daga, þá þvo heſtinn vel í volgu vatni.

## § 33.

### Um Offa-kláda.

Stundum ſækir ſá offa-kládi á heſta, að þeir nudda ſér upp við ſtocka og ſteina, ſvo hár og ſkinn áſtundum loſnar; alloptaſt er þá eckért að ſjá á ſkinninu annað enn heſturinn væri heilbrygdir, og ſkjaldan er hann líka veikur; kémur þetta af óhreinindum í hárinu og ſkinninu, og læknaſt bezt við að ſundleggja heſtinn iðuglega, ſamt taka honum blóð á halsædinni, láta blæða 1½ pott, og núa ſtaðina, ſem klæa, með ſápuvatni. Merkiſt þaráméti til ſmá-kÿla og nabba á ſkinninu, er bezt að maka þá með þeim í næſtundang. § umtöludu ſmyrſlum, og þvo þaráeptir í ſápuvatni. Komi kládinn í taglið, verður að kémba það og greiða, ſvo þar ſafniſt ei ſkarn á milli háranna.

## § 34.

### Um Lúſa-veiki.

Lÿs ſafnaſt helzt á heſta, ſem lengi hafa ſtaðið í ſveltu, eða eru mjög magrir; nauðſÿnlegt er því að fóðra þá vel, og maka ſvo ſtaði þá, hvar lÿſnar eru með Kvikaſilfurs-ſmyrſlum (ungvent Neapolitanum), eptir 12 tíma drepaſt lÿſnar þá, og má þá þvo heſtinn með volgu ſápuvatni.

## § 35.

### Um Hríngorma.

Ymisleg merki hefir sjúkdómur þessi: byrjar hann opt með smá hnútum, í hverjum að grefur; á sumum hestum eru hnútarnir lengri, og grefur þá líka í þeim, en stundum ecki; opt ber það og við, að einn eða annar limur bólgnar, detta þar þá á sár, sem þaðan í frá útbreiða sig víðar á sképnunni. Strax sem vart verður við kvilla þenna, er nauðsýnlegt, ef verður, að aðskilja hestinn frá þeim heilbrygðu, sem annars fá hann líka; þareptir skal tilbúa dupt af 8 lóðum Ammoniak-gummi (gummi ammoniacum) 4 lóðum af Spíðsglands-púlveri (antimonium crudum) 2 lóðum af Brennisteini og 4 lóðum af Hvannarótar fræi, þetta skal hræra í vatni, svo úr því verði sem þyck kássa, og þaraf géfa hestinum 2 lóð 3svar um daginn.

Sjáist merki til að hnútarnir verði að sárum, verður að brenna þá með brennijárni, og maka svo sárið í tjöru undireins og bruna-skorpan er affallin; séu sárin laung, er bezt að strá í þau hreinu kalki, áður tjaran sé áborin. Þannveg, sem nú var sagt, skal aðfara uns hesturinn er gróinn, en gæta þó jafnframt að hann fái gott og óskémmt fóður; það gérir opt mikið gagn, að setja á kvið hestsins nockrar baunir strax í byrjun sjúkdómsins.

## § 36.

### Um Sár.

Skyldi svo viðbera, að ólmir hestar stycki yfir túngarða eða önnur gérði, og fengju þarvið sár á kvið-

inn, svo idurin útféllu, verdur strax ad leggja hestinn nidur, koma þormunum inn, og sauma svo fyrir, en saumur sá gjeríst svo: ad taka skal mjóa skónál nockud beigda, þræda hana med sterkum horþrædi eda seymi, og stínga henni svo ígégnum bádar varir sársins, og hafa hérumbil fíngurs breidt milli hverrar stúngu, og gá vel ad, ad nálin eigi snerti þarmana; endarnir, sem eptir hverja stúngu eru afskornir, skulu nú bindast saman, þar sem hvor liggur ámóts vid annann; þareptir skal optsinnis daglega bada sárid med koldu vatni til ad fyrirbyggja bólguna. Strax sem sárid er gróid, skal útdraga þrædina, samt medan sárid er ad gróa géfa hestinum smátt skorna tedu.

Öll stór sár í kjetinu, hvar vogurinn frítt gétur útrunnid, læknast vel, ef þau iduglega eru þveigin med koldu vatni; en ødruvísi er því varid, ef taugar eda sinar eru sundurskornar, er þá gott ad láta drjúpa í sárin Terebintin-oliu.

Komi sár um lidamótin, svo gul-leitt vatn renni útaf sárinu (þad er: lidavatnid), þá er þetta hættulegt. Ef bólga kémur í lidamótin, skal bada þau med samblandi af ½ potti af Blýextracti og 1 potti af vatni. Vatn þetta skal velgja í hvort sinn sem þad er brúkad; hjadni nú bólgan, er bezt ad maka lidamótin med svidafloti; hjálpi þetta alls eckért og komi uppdráttur í fótinn, skal smyrsli gjora af 2 qvintinum af Spansflúgna pulveri og 6 lódum af Svínafeiti eda ósøltudu smjori, og med þessu maka hinn veika lim.

§ 37.

Um Beinbrot.

Sé fótur eda lærleggur á hesti brotinn, þá er þar ecki lækningar von, og þessvegna ei annad rád enn ad slá hestinn af.

# 3 Kapituli.

## Um innvortis sjúkdóma á hestum, þeirra einkénni, upptøk og lækningarmáta.

§ 1.

Um Hrossasótt (Kveisu.)

Sjúkdómur þessi er algengur á Íslandi, og verdur mørgum gódum hestum ad bana, einkum þeim sem ridid er. Upptøk sjúkdómsins eru þannig: hesturinn hættir ad jeta, stappar med fótunum, og slær þeim ástundum upp undir kvidinn; hann kastar sér nidur, en liggur þó skjaldan lengi; þegar sjúkdómurinn verdur verri óróast hestinum ennú meira, hann fleygir sér nidur, kastast um á ýmsar hlidar, réttir frá sér fæturnar og ber høfudid mjøg órólega. Strax sem vart verdur vid þetta, skal taka hestinum blód á hálsædinni, og láta blæda 1 pott, þareptir skal taka handfylli af Kamomillu-blómstrum, (Flores Chamomillæ), sjóda þau í 1 potti vatns, sía seydid frá og blanda þarí 4 matskeidum af lýsi, 2 lódum af Saltpétri og géfa hestinum í einu. Séu Kamillu-

blómstur ei nærri, má í þeirra stað brúka litið af Hvannarótar fræi, edur og Hafrasúpu blandaða með lýsi, sem fyrr var sagt. Einka gott er og að setja hestinum stólpípu með lýsi, volgu vatni edur ósöltuðu smjöri, blönduðu með Saltpétri; gott er að láta 2 eða 3 thespeiðar af Kamfórudropum í stólpípuna, hafi maður þá við hendina; ecki veitir af, að til stólpípunnar séu teknir 1 eða 2 pottar, og í hvern pott ætti þá að hafa þriðjúng lýsis eða ósaltaðs smjörs. Stólpípa er í mörgum dýra sjúkdómum eitthvort hið ágætasta hjálpar meðal, og ættu allir bændur, sem hafa margar sképnur og vildu hjálpa þeim, að vera sér í útvegum um hana; skal aptanvið bækling þenna verða gétið hvernin hún á að tilbúast og brúkast. Þegar kveisan ecki vill batna, verður að ítreka stólpípuna að hvorjum ¼ tíma liðnum. Verði ei viðkomið að setja stólpípu, má taka skéggsápu, og skéra þaraf aflaung stykki, sem séu lögud álíka og lítið egg, maka þau svo með salti og lýsi, og stínga inní þarfagánginn, svo lángt sem verður, géti hesturinn nú tadt, má samt ítreka þetta aptur.

Dýralæknarar gjöra mismun á kveisu eptir hennar ýmislegu orsökum, og telja þaraf 4 höfuðtegundir nefnil: 1) kveisa sem kémur af bólgu í görnunum; 2) kveisa sem kémur af sína-drætti; 3) kveisa sem kémur af vindi í görnunum (Vindkveisa), og þeckist á því að hesturinn er uppþemdur mjög; og 4) kveisa sem kémur af hægðaleysi. Gjöra skal við allar þessar tegundir sem áður er sagt, og einúngis gæta þess, að við kveisu, sem kémur af bólgu í görnunum, og sem þeck-

ist á því ad lifædin slær hardt og hesturinn er ákaflega óeyrinn, verdur ad láta blæda í meira lagi, og ítreka blódtökuna optar. Nockrir ausa vatni á kvidinn, hvad sumum þykir þó órád *).

§ 2.

Um Þvagteppu.

Þessi sjúkdómur þeckist á því, ad hesturinn stendur sem hann vildi pissa, án þess þó ad géta þad; fari madur med hendina inní þarfagánginn verdur hann strax var vid blodruna, sem er mjög full og útspennt. Tilefni til veikleika þessa er annadhvort sinadráttur (Krampe) í vodva þeim, er lokar blodrunni, edur steinar sem safnast hafa í blodruhálsinn. Í sjúkdómi þessum er allt undir því komid ad hestinum sé hjálpad sem fyrst, því annars spríngur bladran og hesturinn deyr; þad skédur á þann hátt, ad madur setur hestinum stólpípu med volgri Hafrasúpu og lýsi, eda vatni og lýsi, eys köldu vatni yfir hrygginn og lendina, og hjálpi þad ei, makar madur hendina med ósöltudu smjori eda lýsi, fer med hana, sem fyrr er sagt, inní þarfagánginn og þrýstir nú á blodruna framanfrá aptur á vid. Hjálpi hvorugt af þessu, verdur strax ad leita Dýralæknirs, ef hans er kostur.

§ 3.

Um Klums.

Eptir Conferenceráds M. Stephensens sáluga

*) Sjá Lector Witts Haandbog i Veterinair-Videnskaben.

frásogn*) hefir þessi hættulega veiki gengið sem Land-, farsótt 1805 á Íslandi; segir hann svo: að sjúkdómurinn hafi byrjað með megnri Kolldusótt, ákofum hita, hofuðverki og hjartslætti; hjartað hafi barist, sem það ætlaði að springa, og endalokin urðu, að hestarnir urðu klumsa og dóu eptir 3 til 8 daga, án þess að géta etið nockuð á þeim tíma. Optar hefir hitt þó verið, og er algengt, að særleikar, sem nýlega hafa kastað, og eru brúkaðar umof, fá gjarnan kvilla þenna, og byrjar þá veiki þessi svo: að hesturinn gétur ei lokið munninum upp, hann verður klumsa, taglið er bogið, og apturfæturnir stirðir eins og staurar, hálsinn stirðnar nú líka, og froðuskúm kémur fram á milli tannanna; loksins stirðnar hesturinn upp og deyr innann skamms. Tilefni til veiki þessarar géta verið ymisleg: ofmikil brúkun á særleikum, sár einkum þar sínar eru undir, að miklum svita slái inn, og fleira.

Illt er að lækna kvilla þenna og opt ómegulegt, þó er þess helzt von í byrjun veikinnar; bezt er þá að taka hestinum vel blóð á hálsæðinni, og láta blæða nockra potta, láta hann inní hesthús og klúa að honum sem bezt verður, svo honum verði heitt; stólpípu skal honum setja af volgu vatni með lýsi, og láta ½ qvintin af Kamfóru í hvorja stólpípu; þetta skal ítreka hvorn 3ja kluckutíma. Séu kjálkarnir ei fast samanlímdir, skal reyna að géfa hestinum inn Opiumsdropa (Tinct. opii simplex) og Kamfórudropa, blandaða saman, hérumbil

*) Veterinair Selskabs Skrifter 1808, pag. 286.

1 matskeid af hvorjum, og ítreka þetta hvorn 4 klukkutíma; semuleidis á ad maka hálsinn med volgu lýsi eda olíu, einkum sinarnar. Nockrir taka 2 lód af saltpétri 1 qvintin af Kamfóru, steyta þad í dupt, hræra þad út í graut, og géfa hestinum þad 4 sinnum daglega*). Falli svo ad klumsid fari batnandi, varir þad opt lengi, og þarf þá hesturinn gódrar hjúkrunar vid um þann tíma, og einkum ridur á ad sjá til, ad eigi slái ad honum kulda, verdur því ad þekja hann med brekánum eda ödrum vodum.

Conferencerád M. Stephensen sálugi segir, ad nockrum hestum hafi batnad i fyrr umgétinni hestapest 1805, ef þeim var tekid duglega blód, sett stólpipa og látnir drecka volgt vatn, ádurenn kjálkarnir urdu fastir saman.

§ 4.

Um Kölduveiki (Feber).

Kölduveiki er ei svo algeng á hestum á Íslandi, sem annarstadar, þó ber vid hún verdur ad faraldri, einkum á vetrum, til ad minda veturinn 1833, einkum sunnan og austan á landinu. Veikleika þessum gétur verid ýmislega varid, og er annadhvort Igérdarveiki eda Rotnunarsótt, en þó mun sú seinni vera skjaldgæfari á Íslandi.

Igérdarveikina taka gripirnir med kuldahrolli og skjálfta; hesturinn eingir sig saman og stendur í sömu sporum, þareptir verdur hann ákaflega heitur og þorst-

*) Sjá Lector Witts Haandbog i Veterinair-Videnskaben.

látur; augun eru skær og fljóta í vatni; hann hættir ad jeta; lífædin slær hardt og tídt; kvidurinn þembist upp. Tilefni til kvillans eru ýmisleg, til ad minda: ofmikil brúkun, ofmegnt hey eda ofeldi, ef ad hestinum slær, þegar hann er mjøg sveittur. Bezt er sem fyrst ad taka hestinum blód og láta blæda 3 eda alltad 6 potta; þareptir skal géfa hestinum ad drecka vatn, hvari Saltpétur er uppleystur, hérumbil 1 eda 2 lód í einni fotu vatns, en sé hann ei til, má brúka salt í Saltpéturs stad; þareptir skal setja hestinum stólpípu med hafrasúpu og lýsi, eda volgu vatni og lýsi, samt alltaf sjá til ad hann hafi nóg ad drecka.

Rotnunarsótt byrjar einnig med keldu, en þó eigi svo megnri sem í Igjordarsóttinni; hesturinn er ákaflega magnlaus og gétur varla stadid; þegar hann gengur skjøgrar hann á ýmsar hlidar; lífædin slær ótt og tídt, en er mikid lin; hesturinn fær sótt, og er hún optastnær blódi blandin. Þad var einmidt þessi kvilli er almennur var á hestum 1833 í Árnessýslu og vídar um land. Bezt er strax í byrjun kvillans ad taka hestinum blód, og láta blæda 2 eda 3 potta; þareptir skal setja stólpípu, sem adur er sagt, láta hestinn vera í koldu húsi, og géfa honum gódan mola (hérumbil 1 qvintin) af Kamfóru 3svar sinnum daglega; sjá verdur til ad hesturinn hafi nóg ad drecka, og er bezt ad géfa honum vel súra blondu af ediki eda sýru, svo mikid sem hann vill drecka; hafi madur Hvannarót, má taka hana, skéra ofursmátt, taka þaraf 2 lód og 1 qvintin af muldri Kamfóru og einsmikid af Saltpétri, þetta skal hræra

saman vid graut af méli eda hofrum og géfa hestinum 3svar sinnum daglega. Þad ber opt vid i veiki þessari ad blódid vill safnast til hinna innri parta, og er því opt naudsýn, sem fyrr er sagt, ad taka hestinum blód.

§ 5.

**Um Bólgu í heilanum.**

Sterkir og feitir hestar fá helzt þenna sjúkdóm, og gétur hann komid af því, ad hestum er ridid um of í megnum hita, edur og ad þeir eru bardir um hofudid; þó mun þessi sjúkleiki sjaldgæfur á Íslandi. Einkénni sjúkleikans eru þau, ad hesturinn verdur galinn og leitast ástundum vid ad drepa sig. Strax sem merkist til kvilla þessa, skal hestinum blód taka á hálsædinni og þad í meira lagi, ausa morgum vatnsfotum yfir hofud honum, setja honum stólpípu og hlífa vid allri brúkun.

§ 6.

**Um Bólgu í lúngunum.**

Hesturinn hefir kolduhroll og hósta, sem orsast, þegar þríst er á barkakylid; hann þolir ei ad liggja, skjegrar allur ad aptanverdu; púlsin er optast fljót og nockud hord. Orsakir géta verid, ad kulda slær ad hesti, ad honum er ridid mikid á móti hvossum vindi, eda brjóstgjardirnar eru girdtar fast og fl. Strax sem verdur vart vid veikleika þenna, skal losa allar gjardir á hestinum, hlífa honum vid allri brúkun, taka duglega blód 2svar eda 3svar sinnum, setja stólpípu af hafrasúpu,

salti og brædðu smjori, og gefa hestinum 1 qvintin af Saltpétursýru 3svar sinnum daglega.

§ 7.

### Um Nýrnabólgu, eða Nýrna-sigjörð.

Nýrnabólga þekkist á megnri köldusótt, hverri að fylgir mikill sviti, hesturinn verður stirður og hálfhaltur á apturfótunum, hann verður magnlaus og sígur niður með apturhlutann og getur ekki reist sig. Þetta er almenn veiki á ferðahestum á Íslandi, og kalla menn það allmennt **Slig**; var það fyrrum eignað draugum, apturgaungum, vondum öndum og fleiru þessháttar, þessvegna settu menn krossmark með tjöru á lend ferðahesta, hvað þó lítið gat hjálpað skepnunni. Kvilli þessi kémur opt á feita hesta, sem eru brúkaðir um of, merkist allopt ekki til neins, fyrrenn áðurtöld tilfelli koma allt í einu, sem optastnær eptirað hestinum hefir orðið ofkaldt. Strax sem vart verður við veiki þessa, skal hestinum blóð taka og það í meira lagi, og er opt þörf að ítreka það fleirum sinnum; þareptir skal stólpípu setja af lýsi, hafraseiði og salti, samt, ef faung eru á, gefa inn Saltpéturspúlver í grjóna-hafra-eða bygg-seyði, og láta hestinn drecka svomikið sem hann vill af vatni, úr hverju þó áður skal taka kaldakulið.

§ 8.

### Um Harðsperru.

Sjúkdómi þessum, sem optast kémur á únga hesta,

fylgir meiri eda minni kuldi, hesturinn verdur stirdur í framfótunum, og á mjøg bágt med ad gánga; apturfæturnar setur hann lengra fram undir kvidinn enn vant er, og er gángur hans því líkastur, sem apturfæturnir ættu meștann þátt þarí; séu allir fæturnir jafnveikir liggur hann optastnær; ætíd eru fæturnir í kvilla þessum heitari enn vant er. Veiki þessi orsakast af ofmikilli brúkun helzt á ungum og feitum hestum; gétur hún líka komid af því, ad sveittum hesti verdur ofkaldt. Séu mikil bregd ad þessu, verdur ad draga járnin undan hestinum; þareptir skal taka honum blód í meira lagi, einkum sé hann feitur og megn kaldusótt fylgi hardsperrunni; um fætur hestsins skal ausa køldu vatni, og láta hann svelta í 2 eda 3 dægur; gott er og ad maka fæturnar med Kamfer-olíu, eda ef hana vantar, þá med lýsi, samt géfa inn salt annadhvørt med hafra-grjóna- eda bygg-seydi, eda, hvad handhægara er, láta setja honum stólpípu af Horbledkuseydi med salti og lýsi. Þegar hestinum fer ad skána hardsperran, verdur ad fordast ad láta hann gánga á miklu staggrýti eda vera lengi ójárnadann.

## § 9.

### Um Heysótt (Lunge-Betændelse.)

Einkénni veiki þessarar eru þessi: hestinum er þúngt um andann, hann hefir jafnadarlega hósta og hriglu, og mædist strax vid minnstu áreynslu; nasirnar eru útspentar og rifbeinin gánga upp og nidur. Ymsar eru

orsakir til veiki þessarar, en optastnær er það annaðhvort gomul Lúngnabólga, miglað og skémmt hey, eður og að hestur sveittur hefir orðið innkulsa. Hafi veikin varað lengi, er kvillinn opt slæmur viðgjörðar; en sé hesturinn við góð hold, skal strax blóð taka og láta blæða 1 pott, velja hónum gott og létt hey, og ítreka blóðtokuna í hverri viku; séu ráð til þess, skal maður kaupa nockur lóð af Ammoniac-gummi og eins mørg af Brennisteins blómstrum (Flores sulphuris) og steyttri sápu, þetta allt skal samanblanda, og gefa hestinum þaraf 2 lóð, hrærðu saman við mélgraut, 2svar sinnum daglega.

## § 10.

### Um Nálg.

Það ber optar við að folald enn fullorðnir hestar fá kvilla þenna. Einkénni hans eru þessi: folaldið eða hesturinn missir hold og hamsa, það liggur mikið og bitur sig í hlíðarnar eða ber í þær með taglinu, eins og það vildi berja þaðan mýbit eða flugur; en það óbrigðulasta einkénni er það, þegar ormar sjást í taðinu. Gjøra skal seyði af Entianrót (radix gentianæ) Hvannarót og Horblødku í sterkara lagi, þarí skal nú uppleysa salt, blanda þarvið nockru af óseltuðu bræddu smjøri eða lýsi, og setja þaraf stólpípu.*) Ítreka verður nú

*) Hérumbil 1 lóð af hvorri rót þessari fyrir sig skal sjóðast með 1 potti vatns niðurtil 3gja pela, og er þetta þá mátulegt í eina stólpípu.

þetta optar, einkanlega ísvolengi áðurtöld einkénni ormanna ecki erù horfin.

## § 11.

### Um búkhlaup.

Við ber það að hestar fá Lifsýkissnert einkum af megnri töðu á vetrum eður og á gróanda á vorðag. Séu ei mikil brögð að kvilla þessum, er hann ecki skaðlegur, og má þá álitast sem náttúrunnar velgjörníngur, og er þá eigi annað verðt að gjöra enn að géfa hestinum létt fóður og í minna lagi. En fylgi kvilla þessum Rótnunarsótt, eður og að hann vari mjög lengi, svo kraptar hestsins fari minkandi, þá skal géfa seyði af Blóðrót, Murum og Vallhumli, eður og setja hestinum stólpípu af því; má þá gjöra það sterkara og linara eptir því sem eðli sjúkdómsins er varið.

## § 12.

### Um Höfuðsótt (Koller.)

Hestaveiki sú, er Danir kalla Koller, og hér kallast Höfuðsótt hesta, kémur af því, að ofmikið blóð safnast fyrir í heilanum, eður og í heilanum er vatn eða beinæxli, sem þrista á hann, ella í þriðja lagi að sólargeislarnir hafa ígégnum augun gjört slæma verkun á heilann. Einkénni sjúkdóms þessa eru: hesturinn líka sem hamir og fer varla úr sporunum; teimi maður hann úr stað, ber hann fæturnar hátt, og hengir höfuðið niður í jörðina; þegar hann fer að bíta, tekur

hann með grædgi í grasið, og heldur svo tuggunni i munninum án þess að tiggja hana, svo hún fellur opt úr munni hestsins aptur ótuggin; þó madur taki framfæturnar og setji þær á víxl, þá stendur hann í sömu sporum. Þetta kalla Dýralæknarar Doðkoller. Verði hesturinn þarámóti vitlaus uppúr þessu, kalla þeir það rasende Koller; sú tegund sjúkdómsins líkist mjög Bólgu í heilanum, sem um er gétið í § 5. Veiki þessi kémur helzt á hesta, sem hafa ofmikið fóður, og oflitla hreifingu, eður og hún gétur komið af ofmikilli brúkun, einkum í megnum sólarhita. Undireins og vart verður við áðurtöld sjúkdómsins einkénni, skal taka hestinum blóð á hálsæðinni, og láta blæða 2 eða 3 potta; þareptir skal géfa 1 lóð af Saltpéturs-dupti 2svar sinnum daglega, þartil veikina linar.



# 4 Kapituli.

## Um Kýr og Nautpeníng.

Það er ei litið undir því komið að velja kálfa til uppeldis undan góðum mjólkur-kúm, og er það opt til stórs skada fyrir bændur að þeir vanda það áſtundum ei sem skyldi. Það er meiníng Dýralæknara að kvígu-kálfa skuli velja undan góðum mjólkur-kúm, sem skjaldan verði feitar, þó vel aldar séu; þarámóti vilja þeir láta velja griðúngs-kálfa undan góðum mjólkur-kúm, sem þó ætíð haldast vel við hold; því eptir þeirra meiníng er ogsvo mikið undir því komið, að griðúngar séu af góðu kyni, og eigi brúkaðir fyrrenn þeir eru 3gja vetra. Einkénni á góðum griðúngi eru þessi: höfuðið á að vera stutt og sterkt, fallegt og lýtalaust; augun skjær og hrein; ennið breidt og hálsinn digur og sterkur; allir vöðvar sterkir og stórir; fæturnir lángir og sterkir og brjóstið breidt.

Ekki stendur á neinu hvenær kálfar eru aldir, en mikið er undir því komið, að kálfar séu vel fóðradir, því annars verða það aldrei sképnur að gagni. Nauðsynlegt er að géfa kálfum broddinn, því hér er því álíka varið og með manninn, að móðurmjólkin má ætíð álítast sem sannkallað læknismeðal fyrir úngviðin; kémur það af því, að brodurinn hjálpar til hægdanna, og hindrar þannveg saurindi frá að géta safnast fyrir í gornunum, hvað ella gétur ollað mikils ills, margra veikleika og jafnvel áſtundum dregur þá til dauða. Í þeim 1ta mánudi skal géfa kálfinum móðurmjólkina spenavolga eins

og hún kémur frá kúnni; þegar hann er lidinn má smátt og smátt venja kálfinn til undanrenníngar og mysu, þó er betra ad géfa kálfinum þad ei kaldt, heldur svo, ad úr þvi sé tekid kalda kulid, þángadtil kálfurinn smátt og smátt er vaninn til ad drecka kaldt; einka gott er ad blanda drykk þann, er kálfar fá, med grjóna-bygg-eda mél-mjólk, því þad eykur framfor þeirra og voxt; smámsaman skal svo venja kálfa til ad jeta hey, og má þó í fyrstu velja þad gott; bezt er þartil velþurkud smá tada. Umfram allt rídur á því, ad kálfar ecki svelti í uppeldinu, því þá verda aldrei úr þeim sképnur ad gagni, og er þad ei lítill skadi fyrir búanda; þad er því ætíd ómakslns verdt ad vanda fódur þeirra, samt halda þeim hreinum og þockalegum, svo eigi komi í þá óþrif, hvad seinna meir gétur géfid tilefni til ymislegra veikinda.

Allir bændur á Íslandi vita hvad bezt hentar med fódur fyrir nautpeníng, og þarf eg því eigi ad fara þarum morgum ordum, en einúngis géta þess, ad þegar hardt er um hey, má géfa nautum korn, hris, vídir, kál, kartoflur, þáng, marhálm og fl. Dýralæknarar ráda til ad blanda salti í skémt hey, og skal þad þá verda heilnæmara.

Þad ber opt vid ad kýr láta kálfi, og eru þartil nærfeldt hinar somu ordsakir sem til þess, er færleikar kasta fyrir tímann; þad gétur og komid af því, ef kúm er beitt úti hrimfrost, eda þær standa á votlendi, hvareptir þeim verdur ofkaldt.

Ef kýr géta eigi borid kálf sinn, er þad optast af

líkum orsökum og'ádur er umgétid vid færleika, er eigi géta kastad. Hjálpa skal þeim þá til ad skiljast vid kálfinn, og er þá einmidt hin sama adferd hér, sem þar var umgétid.

Skortur á gódu vatni er mjøg skadligur fyrir nautpeníng, gétur þad gésid tilefni til Miltis- og Lúngnaveiki; þad er því naudsýnlegt, ef skéd gétur, ad sækja vatnid lengra burtu, edur og grafa brunna, hvar líkindi eru til ad gott vatn sé undir.

---

# 5 Kapítuli.

## um útvortis sjúkdóma á Nautpeníngi, þeirra einkénni, tilefni og lækníngarmáta.

### § 1.

### Um Tønnurnar.

Þegar kýr ecki vilja'jeta, er naudsýn á ad gá ad tønnunum, og ber þad þá stundum til, ad madur finnur ad þær erú lausar, og sé svo, skal taka 2 lód af Alúni og hella þará sem svari 4 matskeidum af sjódandi vatni, og þegar Alúnid er uppleyst, skal blanda þarvid 4 lódum af Hunángi eda bræddu hvítasikri; þegar þetta er búid, skal þessu rjódra á tannkjøtid 2svarsinnum daglega; adgætandi er'ad hérvid meinast jaxlarnir, því

framtennurnar eru aldrei svo fastar; þó ber það opt við, að þær verða opt fastari við áðurtalið meðal.

## § 2.

### Um Knékvap.

Kvilli þessi er almennari á nautpeníngi enn hestum, og kémur það til af því, að þessar sképnur setja niður knéð þegar þær skulu reisa sig á fætur, er hér þá öll hin sama aðferð, sem gétið er um við kvilla þenna á hestum.

## § 3.

### Um nagla og annað, sem stúngist gétur uppí fæturnar.

Hafi naglabrot, smáir steinar, tréslísar eða annað þvílíkt stúngist uppí fætur á nautpeníngi, þá verður strax að draga það út, skéra skurðinn upp, hella þarí Brennivíni eða Terebintín-olíu; þareptir skal vefja um fótinn upptánum hampi og ríum, svo óhreinindi eða annað eigi géti komist inní sárið.

## § 4.

### Ef úr liði fer.

Fari aptur-eða framfótur úr liði, verður strax að kippa honum aptur í liðinn; bezt er þá að láta sképnuna eigi gánga úti, og baða fótinn iðuglega með köldu vatni, klaka eða snjó.

## § 5.

### Um Sár á Nautpeningi.

Sár koma annadhvert af gømlu mari eda meidslum, en hvort sem heldur er, er ætid naudsýn ad sjá til, ad vogurinn ei safnist fyrir í sárinu, einkum sé þad mjøg djúpt; verdur því, ef þad er mjótt og djúpt, ad gjøra þad stærra med beittum knífi, svo grefturinn óhindrad géti útrunnid; þareptir skal seydi géra af Vallhumli í sterkara lagi, væta þari línskaf, leggja í sárid og binda svo yfir med ríum. Komi holdfúi í sárin, skál strá í þau mulinni Myrru eda brendu Alúni, og fara þvínæst fram því næst var umgétid.

## § 6.

### Um Kýli.

Nautpeníngur fær opt kýli á kjálkana eda framaná hálsinn; þau grafa skjaldan út af sjálfu sér, heldur verda þau opt ad hørdum ærlum, sem seinna géta ordid ad meini. Þad er því rádlegast, strax sem verdur vart vid þessi kýli, ad raka burtu hárin, og maka þau med svidafloti eda lýsi, þartil þau verda lin átøku; má þá stínga á þeim med beittum knífi, og er þá bezt ad gjøra skurdinn nógu stórann, svo grefturinn allur géti útrunnid; þegar þad er gjørt, skal daglega hella í sárid sjó eda soltu vatni, og grær kýlid þá brádum af sjálfu sér.

## § 7.

### Um Bólgu í júvrinu.

Þegar kýr eru nýlega kélfdar eda hafa nýborid fá þær opt bólgu eda þrimla í júvrid; naudsynlegt er þá ad mjólka kúna 3svar sinnum daglega, og bera á júvrid mykjandi smyrsli, tilbúin ad jöfnum pörtum af Laurbærolíu og Althea-smyrslum (ungv. altheæ); sé þad ei til, þá skal taka Lambablóm (Saxifraga oppositifolia), eda ef þad er ei ad fá, þá Smára (Trifolium repens) hérumbil 2 lód af hvorju sem er, skéra þad ofursmátt og sjóda saman vid 4 lód af bræddu smjöri; med þessum smyrslum skal nú maka júvrid nockrum sinnum daglega. Hafi madur góda Kamfóru, þá segir Próf Abildgaard hana einka góda til ad eyda þessháttar bólgu, og ætíd ættu bændur, sem hafa margar sképnur, ad eiga Kamfóru í húsum sínum.

Komi bólga eda mjólkurþrimlar í spenana, er öll hin sama adferd, sem hér er umgétid, og ridur mjög á, eigi ecki verr ad fara, ecki ad fórsóma hana. Eptir Conferenceráds M. Stephensens sál. frásögn er kvilli þessi mjög allmennur á Íslandi, og sjálfur hefi eg optsinnis séd hann; vissi eg þad opt ad gódu gagni koma, ad taka næpur eda gular róur, sjóda þær í vatni, steyta sídan med smjöri, láta þetta innaní klút, og binda þad, svo heitt sem madur þolir ad lagt sé á handarbak sér, vid júvrid; þad má gjera á þenna hátt, ad 2 bondum sé bundid í horn klútsins, og þau svo bundin saman ofantil á

hryggnum. Naudsýnlegt er ad velgja þenna róubagsl-ur upp nockrum sinnum daglega.

§ 8.

Um Sprúngur í júvrinu og spenunum.

Í þurrum og heitum sumrum fá kýr, sem jafnadarlega gánga í mýrlendi, sprúngur í júvrid og spenana, bera þær sig þá opt illa þegar mjólkadar eru. Sprúngur þessar er bezt ad maka med Blýhvítu-smyrslum (Ungventum Cerussæ); en sé það ei til, þá skal smyrsli gjøra af smátt skornum Vallhumli eda Blódrót, sodinni med nýu ósøltudu smjøri, og bera þau á sprúngurnar. Stundum kémur skorpa á spenana, og er þá naudsýnlegt ad maka þá vel med svidafloti eda nýu smjøri.

§ 9.

Um blóduga mjólk.

Blódblandin mjólk gétur komid af ofmiklu blódriki, eda þaraf ad kýrin er óvarlega mjólkud, hvarvid ædarnar sundurrifast. Þegar þetta orsakast af blódriki, þá ber það opt vid, ad kvilli þessi varir lengi. Bezt er sem fyrst ad taka kúnni blód og láta blæda 3 eda 4 merkur. Komi þetta þarámót af því, ad æd hafi sprúngid í spenanum, þá skal júvrid badast med køldu vatni.

§ 10.

Um Kláda.

Kládi kémur helzt á gamlar kýr, sem fá slæmt og

lítid fódur; þó gétur ogsvo skéd ad hvør kú fái hann af annari. Kálfar, sem hafa soltid, fá hann líka opt. Stundum kémur hann á kýr, sem géfid er illa þurkad eda miglad mýrlendis hey; þad er því ætíd mikilsverdt ad géfa gódann gaum ad tilefni kvilla þessa. Komi kládinn af sulti, verdur ad géfa nautpeníngi betra fódur, ef faung eru á því, og skal þá sá í heyid nockrum lódum af Brennisteinsdupti og steyttum Einirberjum, hérumbil 1um eda 2ur matspónum í senn; þegar búid er ad géfa nautpeníngi dupt þetta nockra stund, skal smyrja alla þá stadi, hvar kládinn er, med Lýsissápu, sem bløndud sé med Brennisteinsdupti, eda eintómu Lýsi med Brennisteini; í hvørs stad ad brúka má, ef Brennistein vantar, Tóbaksósu, sem á er borin á líkan hátt; þegar þetta er gjørt 3 daga í senn, þá skal hinn 4da dag smyrslin af þvo med volgu sápuvatni. Adgætandi er, ad séu þad kálfar eda úngvidi, sem kládann hafa, skal sá ádur umtaladi skamtur af Brennisteins-duptinu og Einirberjunum vera tøluverdt minni.

Þad ber opt vid ad kládi er mjøg þrálátur, og ráda Dýralæknarar þá ad setja baunir framaná hóstina og bógana.

Þegar kýr eda kálfar hafa fengid kláda, þá er naudsýn á ad stía þeim frá hinum heilbrygda nautpeníngi, því annars fær hann hann líka; bezt er því sem fyrst ad taka sjúklinginn og láta í annad hús, verdi því med nockru móti vidkomid, því komist kvilli þessi á í einu fjósi, svoad

hvor kýrin fái hann af annari, þá er hann mjeg leidin-legur, og stendur nautpeningi stórum fyrir þrifum.

## § 11.

### Um Lús á Nautpeningi.

Þegar lús sækir á nautpening, þá er hin sama adferd og ádur er umgétid í § 34 um lús á hestum.

## § 12.

### Ef kýr verda géldar.

Þad er skjaldgæft ad kýr verda géldar, án þess ad á þeim sjáist nockur veiki-merki; skédur þad ástundum nockrum mánudum eptirad þær hafa borid, og þad nærfeldt allt í einu; þetta kémur optast af meltingarveiki, sem orsakast af því, ad kúnni er géfid alltof mikid af sterkri og megnri tødu, edur og ad heyid, sem kýrin fær, er miglad og fordjarfad; þó ætla eg ad þad fyrsta muni optar vera orsøkin á Íslandi; heyrda eg opt bændur, er vel gáfu nautpeningi, klaga yfir því, ad kýr ei mjólkudu hjá þeim eins vel og ødrum, er verr færu med þær; hefi eg sídan séd, ad orsøkin er náttúrleg, og óska ad Landar minir géfi vel gætur ad því, er eg nú segi.

Þegar á kýr er borid um of, fer álíka fyrir þeim og mønnum, sem eta yfir sig, þær jeta meira enn þær géta melt, liggur svo heyid hálfmelt í maga og gørnum, og veikir á þann hátt meltingar-verkfærin; næringarsaftin verdur þaraf þyckvari, kýrin feitari og holdugri, en mjólkar lángtum minna; þad er því rád hér-

við, að bændur ei beri svo ákaft á kýr eptir kálfsburð-inn, eða gèfi þeim mjög mègna töðu, heldur blandi hana með nockru af góðu velþurkuðu útheyi, og sjái jafnframt til að kýrin fái nóg að drecka, því á dryckn-um ríður henni fullt eins mikið og á fóðrinu.

Til eru meðöl, sem bæði auka mjólk og lækna melt-íngarveiki, og er það Kúmen-fræ (Semina carvi); það vex óvíða á Íslandi, eg hefi hvergi sèð það nema í Skálholti, hvar töluverdt er af því; veit eg þaraf, að það gètur allvel gróið á Íslandi; vilda eg ráða öllum bændum að sá til jurtar þessarar í kálgerðum eða tún-um sínum, því bæði er það, að jurtin er ágæt í mat, og líka er hún einka gott meðal í tèðum kvilla á kúnum; skal hana þá brúka á þann hátt, að maður tekur nockra matspæni af fræinu, og lætur það í hey-ið bæði kvöld og morgna.

Dýralæknarar gèfa kúm, er gèldar verða, hèrað-auki 8 lóð af Glaubersalti í vatni strax á fastandi maga, 3 morgna í roð; þareptir taka þeir 12 lóð af Eikarberks-dupti, og einsmikið af steyttu Kúmen-fræi, og 12 lóð af rauðu Entíandupti (Pulv. rad. gentianæ rubræ), þessu blanda þeir öllu saman, skipta því í 24 parta, og gèfa í einu einn skamt í hálfum potti vatns.



## 6. Kapituli.

### Um innvortis sjúkdóma á Nautpeningi, þeirra einkénni, tilefni og lækníngarmáta.

### § 1.

#### Um Búkhlaup.

Stephensen segir kvilla þenna mjög algéngann á Íslandi, og skal hann einkum verda hættulegur á kálfum, sem opt deya þaraf. Tilefni hans er optast slæmt fódur, eda ef kulda slær ad nautpeníngi, og sé þetta tilefnid, þá verdur ad reisa skordur vid því, og hlýa betur ad í fjósinu. Af innvortis medölum er Blódrót (Tormentilla) eitthvørt hid bezta medal vid Búkhlaupi; skal af dupti hennar géfa 1 lód í vatni 2svar sinnum daglega, og því framfara þartil Búkhlaupid hættir. Kálfum skal géfa hálfu minni skamt enn þann er nú var tiltekinn.

Kálfum, sem eru aldir á mjólk, er einkum hætt vid ad fá Búkhlaup, og verdur þad þeim, sem nú var sagt, opt ad bana. Séu þeir ei eldri enn hálfs mánadar, skal géfa þeim kvøld og morgna hálft quintín af Rabarbara-rót med 1 quintíni af Magnesía, edur og ádurtalid Blódrótar-dupt, ef hitt er ei til. Fylgjandi medali hrósa menn mikillega: Tak 2 lód af Ent-

ianrótar dupti, hell þará hálfum potti af sjódandi vatni, og lát svo sjóda nockra stund; seydi þetta skal nú frásía og blanda þari 2 qvintinum af Opiums-dropum; af þessari blondu gésst nú kálfinum einn matspónn annannhvorn klúckutima; en fljótari verkun skal þó medal þetta gjöra, ef madur tekur Kólúmbus-rót (Radix columbo) í stadinn fyrir Entian-rót.

§ 2.

Um Hardlífi og Idragikt.

Stephensen segir ad veiki þessi drepi margar kýr á Íslandi, og vita menn sjaldan hvad til ráda er. Þessi eru einkénni sjúkdómsins: kýrin hættir ad jeta, stýnur og andar bísna ódt, sparkar med apturfótunum í jordina, og litur til beggja hlida sér, snarar sér nidur, stendur annadhvort strax upp aptur, eda liggur og stynur þúngann. Undireins og vart verdur vid einkénni þessi, á ad setja kúnni stólpipu, sem um er talad í 3ja Kap. § 1. á hvorri hálfri stundu, svo á undireins ad taka kúnni blód á hálsædinni; en lini veikinni ecki af þessu, á ad taka 3 handfyllir af Kamillublómi, og sjóda í 3 pottum vatns, láta í seydid 1 mörk af Linolíu eda lýsi og 1 lód af Saltpétri, og gésa gripnum þridjúnginn af þessu adrahverja kluckustund. Hafi menn Djefladryck (Asa fætida), á ad uppleysa hálft lód af honum í sjódandi vatni og blanda í seydid. En sé nú hvorki Kamillublóm, Saltpétur né Djefulsdryckur fáanlegur, þá á, svosem ádur er

sagt, setja stólpípu, taka blód og gésa inn nockra matspæni af Kamfóru-brennivíni, edur Kamfóru-dupt á hnífsoddi.

## § 3.

### Um Uppþembu (Trommesyge).

Stundum verda kýr svo uppþembdar, ad þær standa á blístri, og eru þaraf mjøg veikar. Veiki þessi orsakast af sterku, brendu, megnu og ofmiklu heyi, sem súrnar í inniblunum. Bezt er, strax sem vart verdur vid kvilla þenna, ad setja kúnni stólpípu, og gésa henni 2 matspæni af Steinolíu í 1 pela af brennivíni; mjøg rídur á ad stólpípan verki og kyrin fái gódar hægdir, á hún því ad ítrekast annann hvern tíma, þartil kyrin fær hægdir. Opt hjálpar nú þetta eingaungu, en skyldi nú af því bera, þá er sú eina hjálp til ofurs, ad stínga á kúnni med þartil gjordum bor í skeidum (Trokar), sem þannig er tilbúinn: Borinn sjálfur er gjordur úr járni eda stáli, sívalur og álíka þyckur sem litli fíngur manns; skeidar á ad gjora eptir bornum af látúni eda silfri, sem mega vera nockru styttri en borinn sjálfur, svo oddurinn standi útúr þeim. Bornum, sem er haldid álíka og nafri, er nú stúngid ásamt med skeidunum á kaf inní vinstri sídu á kúnni, hérum þverfingurs breidd frá mjødminni, sídan dregur madur borinn út og fer þá loptid útum skeidarnar, sem eru látnar sitja í sárinu hérumdil 1 eda 2 klukkustundir, svo

ad allt lopt, sem inni fyrir er og safnast fyrir, géti útrímst. Adgætandi er, ad á øllum gripum, sem þetta er gjørt, verdur ad binda apturfæturnar vel og vandlega, svo gripurinn ei géti slegid og barist um med þeim; bezt er líka ad láta hann liggja á hlidinni; en vilji madur stínga á kúnni og láta hana standa ámedan, þá er naudsynlegt ad halda upp ødrum apturfætinum, svo hún ecki géti slegid med hinum fætinum. Þegar skeidarnar eru útdregnar, þá grær sárid af sjálfu sér, en ætíd er gott ad bada þad med køldu vatni.*)

Þad er opt íllt ad fá Steinolíu á Íslandi, og má brúka í hennar stad Hvannarótar-brennivín, nefnilega, brennivín, sem lengi hefir stadid á Hvannarót; brúkast þad þannveg, ad madur annadhvert hellir af því nockrum matspónum í senn í gripinn, eda lætur hálfmørk af því í stólpípuna ístadinn fyrir Steinolíuna.

## § 4.

### Um Hardsperru (Forfangenhed).

Þegar nautpeníngur etur litid eda eckért, hættir

*) Rohlver álítur þad harla naudsynlegt fyrir alla bændur ad eiga bædi stólpípu og bor þenna, sem hér var frásagt. Hann segir líka ad margir hafi fundid ad því, ad hann láti skeidar borsins liggja svo lengi í sárinu, en hann færir gód røk og ástædur fyrir adferd sinni í því efni. Løgun og mynd borsins og skeidanna sést á tøblunni, sem er aptanvid bækling þenna.

ad jórtra, þegar honum er kaldt á eyrum og fótum, þá er það merki til Hardsperru. Hægt er að gjöra við kvilla þessum, og læknast hann optastnær þegar gripnum er tekið blóð á hálsædinni og látið blæda 2 eda 3 merkur. Kálfum, sem eru hálfs eda eins árs, má ei láta blæda meir enn hálfmork.

Kálfum, sem ennþá er géfin mjólk, á að géfa 1 qvintin af Saltpétri 2svar sinnum daglega í vatni, þartil þeim batnar. Kálfar fá þá opt sótt, sem ecki má stodva hina fyrstu 3 daga, en vari hún lengur, má adfara sem sagt er í 6 Kapit. § 1.

Hættulegur er kvilli þessi, þegar nautpeningur, auk þeirra hér umgétnu kennimerkja, stirdnar upp á ollum fótum og hniprar þær undir kvidinn, þegar hann stendur; naudsynlegt er þá að taka vel blód og sjóda 4 handfyllir af Blódbergi eda Vellandsjurtar-blómi (Valeriana officialis) í 4 merkum vatns, sía svo og géfa þeim sjúka gripi helming þess í einu, edur og í þess stad nockra spæni af sterku Kamfóru-brennivíni; sídan á gripurinn ad þekjast med vodum eda brekánum, og fæturnir ad núast vel med þuru heyi. Næsta dag géfur madur hinn helming seydisins edur og Kamfóru-brennivínid og nýr fæturnar á lik-ann hátt sem fyrr; hjálpi þetta ecki, skal hann setja framaná brjóstid, og láta gripinn gánga úti, ef sumar er. Hafi kvíga eda kálfur kvilla þenna, má ei blód taka meir enn svari 1 mork, og géfa hálfu minna af seydinu enn ádur er umgétid.

§ 5.

### Um Lúngnabólgu.

Lúgnabólga kémur af ofmiklum kulda, hráslegnu eda migludu heyi; sé þetta tilefnid, verdur ad hrista heyid vel og hella áþad soltu vatni, en betra er þó ad géfa nautpeníngi, sem veikur er, betra hey, þegar því verdur vidkomid. Hafi gripurinn sljótann og ordugann andardrátt, verdur ad taka blód á hálsædinni, setja stólpípu, og blanda í heyid dupti, ad jofnum portum af Brennisteins-blómstrum, malinni Entíanrót og Piparrót, edur og hræra duptid af þessu ollu til samans vid Hunáng eda sírúp, gjera úr því kássu og smyrja af því, sem svari Lóu-eggs stærd á túnguna kvold og morgna; sé duptid sjálft eingaungu géfid, þá er nægilegt ad taka 1 gódann matspén af því í einu og blanda því í heyid bædi kvold og morgna.

Ef ofmikill kuldi er orsok til sjúkdómsins, þá er venja í útlondum ad géfa gripnum ol og hunáng eda sírúp, hvaded kémur ad gódu gagni.

§ 6.

### Um Gulu á Nautpeníngi.

Þegar nautpeníngur hættir ad jeta og jórtra, og munnurinn og nasirnar ad innanverdu samt augnalokin verda gul, og tadid og þvagid þaradauki er gult, þá er þetta víss vottur þess ad nautpeníngur hefir Gulu. Bezt er, þegar nautpeníngur fær kvilla þenna,

ad fœra hann med mýrlendis eda ødru léttu heyi, og þaradauki gefa honum inn hvorn 3ja dag laxér-medal, svosem: 1 lód Alóe, 2 qvintín Jalapparót og 4 lód af Glauber-salti; þetta allt á ad melja í smátt dupt, og gefa inn allt í einu í 1 potti af vatni. En sé nú þetta medal ecki ad fá, verdur ad brúka Laxérsalt 5 lód í 1 potti vatns, edur, ef þetta lika vantar, þá hella 2 pottum af sjó í nautpening, og fara því fram uns dugar.

Þegar nautpeningur þannveg er ordinn hreinn innan, á ad géfa hønum inn 1 matspón af tjøru í vatni daglega, uns kvillinn batnar,

Stundum ber þad vid, ad kvilla þessum er samfara Lifrarbólga; eyrun verda þá køld, munnurinn heitur og þur, og allur kroppurinn mikid heitur, hjartad slær hardt og tídt, og gripinn þyrstir mjøg. Þegar svo er ástadt, á strax ad taka blód á hálsædinni og láta blæda 2 merkur; sídan á ad setja baun framaná hóstina; innvortis á ad géfa dupt af 1 lódi Saltpéturs, 2 lódum af Glaubersalti og 1 qvintíni af Rabarbara, þetta á ad blanda í 2 merkur vatns og géfa svo inn 3svarsinnum daglega. Seinna meir, þegar gripnum fer ad skána, er nóg ad géfa téd dupt einusinni eda 2svar sinnum á dag; optsinnis er þó þessa ecki þørf, þared tjøruvatnid hjálpar opt eingaungu.

## § 7.

### Um Jgjørdar-bólgu í Heilanum (Hjernebetændelse).

Veikleiki þessi kémur optast af megnum sólar-

hita, mun hann raunar vera sjaldgæfari á Íslandi enn í odrum heitari londum, þó held eg ad eg hafi einusinni ordid var vid hann á einni kvígu upp til dala á Vestfjordum. Kénnimerki hans eru þessi: Augun verda framstandandi skjær, munnurinn er heitur og túngan full af slimi, eyrun og hornin eru heitari enn vant er, hjartad slær hardt og tídt, gripurinn bítur ecki, en himir og hengir hofudid nidur í jordina i fyrstunni, en verdur sídan ódur og fær sinateygjur í alla útlimina.

Strax sem merkist til veiki þessarar, á ad taka blód á hálsædinni, og láta blæda vel, hérumbil 3 merkur; sídan á ad géfa gripnum inn 2 lód Saltpéturs í vatni 3svar sinnum daglega, og þaráofan setja stólpípu, samt líka undireins setja baun á hóstina. Hofudid á ad badast med koldu vatni iduglega. Ef gripnum skánar ecki á odrum degi, þá skal blód taka á hinni hálsædinni og láta blæda 2 merkur: jafnmikid á ad taka hinn 3ja dag, ef sjúkdómurinn varir vid; somuleidis á ad brúka stólpípuna, og géfa Saltpétur inn, sem fyrr er sagt, uns ad sjúkdómurinn batnar.

Verdi gripurinn svo ódur, ad bágt sé tédri hjálp vid ad koma, þá verdur annadhvert ad bída uns ædid hjálídur, edur og ad odrum kosti ad binda hann, svo hann ei géti skadad sjálfann sig eda adra, en þó ridur á því, ad hann ecki liggi lágt med hofudid.

§ 8.

Um Nýrnabólgu (Nyrebetændelse).

Nýrnabólga þeckist á því, ad gripurinn vill ecki jeta, kreppir sig saman og setur fæturnar undir kvidinn, hjartad slær hardt, þvagid er klárt og hreint, en í minna lagi; ef þrýst er á hrygginn hvar nýrun eru undir, þá kénnir gripurinn til, og þar merkist meiri hiti enn annarstadar á kroppnum. Fái kýr kvilla þenna, þá hætta þær ad miólka.

Til ad lækna þenna sjúkdóm á ad taka blód á hálsædinni og láta blæda 2 merkur, samt þaradauki géfa inn hálfkannad lód af Saltpétri í vatni, hvorn eyktartíma, og setja skálpipu daglega. Á hrygginn, hvar nýrun liggja undir, á ad leggja léreptsríur, sem sífeldlega eiga ad vætast med köldu vatni. Þegar gripnum fer ad skána, er nóg ad géfa honum Saltpéturinn 1 eda 2svar sinnum daglega.

§ 9.

Ef Nautpeníngur etur eitur.

Hafi kýr etid eitur þá hætta þær ad mjólka, stappa med fótunum nidur í jordina og gjóta augunum nidur undir kvidinn; stundum sleygja þær sér nidur og stynja þúngann; nockrar verda ástundum ódar, en adrar bláfa mjog upp.

Hid bezta rád, sem almenníngur gétur haft móti eitri, er ad taka 2 merkur nýmjólkur og blanda

þeim saman vid 1 mörk af Lín- eda Böm-olíu, og géfa sképnunum þetta inn á hvörri stundu.

## § 10.

### Um Orma.

Þegar nautpeníngur verdur magur, sparkar opt med fótunum uppundir kvidinn, ber mikid til beggja hlida med halanum og gýtur augunum jafnadarlega til kvidarins, þá eru mikil líkindi til ad þetta séu orma merki. Ecki verdur kvilli þessi læknadur med ødrumóti enn med Orma-fræi (Pulvis vermifugus), sem kaupa verdur annadhvört á Apótheki eda hjá læknirum, þaraf á ad géfa fullordnum nautpeníngi hálftannad lód, en kálfum hálft lód daglega.

## § 11.

### Um Lúngnaveiki.

Kvilli þessi, sem almennt kallast Heysótt á Íslandi, er mjøg hættulegur, og verdur hann mørgum sképnum ad bana bædi þar og annarstadar. Þad er almenn meining Dýralæknara ad sjúkdómur þessi komi af 2 orsøkum, sem eru þessar: 1) Rigníngarsamar og votar ársstídir, láglendi og mýrlendi, sem opt liggur undir vatni, miglad og skémmt hey, saggafull fjós, sífeld þoka, óhollt vatn druckid úr mýrar- og stødupollum, sem á sumrum fyllast med allra handa smákvikindum; þegar fleiri naut drecka af sama pølli, þá gruggast upp í pollinum, og smákvikindin,

sem annars sitja á botninum, fljóta innanum vatnið. 2) Kvilli þessi kémur í heilbrygðann nautpening, sem samgaungu hefir með ødrum nautpeningi, sem veikur er af sama kvilla; þetta sýnir að veiki þessi er mjeg sóttnæm.

Dýralæknarar géfa ýmisleg ráð móti sjúkdómi þessum, en morgum er svo hattað, að bágt mundi því við að koma á Íslandi; þó er verdt, þegar kvilli þessi er mjeg algengur að géfa gætur að fylgjandi athugasemdum: 1) Að láta nautpening liggja inni um nætur á sumrum, þó á fjósið að vera þurt, rúmgott og saggafritt. 2) Þar, sem mýrlendt er og vætusamt, væri bezt að beita kúm á þurlendi eða fjallendi, og láta þær sem sjaldnast koma niður á mýrlendið. 3) Gott er og að blanda salti í Skarfa- eða Garða-kál, og géfa peninginum lítið eitt af því við og við, það er einka góð vern ámóti sjúkdómi þessum; sé kál eigi til, er Einirber eða skorin Hor-bladka blønduð með salti allteins gott. Sé skémmt eða miglað hey orsøk til veiki þessarar, verður að hrista það vel, líka er einka gott, þegar svo er, að væta heyið lítið eitt með sjó eða køldu vatni. Nauðsynlegt er líka að sjá til að nautpeningur eigi drekki af súrum mýrapollum, gétur nautamaður bezt varnað því, ef hann daglega á hverjum morgni, þegar nautpeningi er hleypt út, strax vatnar honum í góðu rennandi vatni, svosem læk eða á.

Þegar Heysótt er komin á nautpening, þá eru merki hennar þessi: áðurenn gripurinn verður veikur,

fær hann hósta, og því veikari kýrin verdur, mjólkar hún minna, hóstinn verdur nú verri og andardráttur-inn fljótari, og lystin til ad bíta og jeta fer nú mínk-andi; leggi menn flatann lófann á vinstri síduna ned-antil vid herdabladid, þá merkja þeir ad hjartad slær bædi hardara og tídara enn þegar gripurinn er heil-brygdur; bakhlutinn ridar áf magnleysi. Af øllum þessum kénnimerkjum má ráda ad Igérdar-bólga sé í lúngunum.

Í þessum sjúkdómi er naudsýnlegt ad taka naut-peníngi blód á hálsædinni og láta blæda 3 merkur; sídan á ad setja hánka framaná brjóstid; innvortis á ad géfa 2 til 3 lód af Saltpétri uppleystum í vatni 3svar sinnum daglega. Fari svo, ad hóstinn, mædin og hjartslátturinn ecki minki vid þetta, þá á aptur blód ad taka á 3ja degi. Þegar áburtalin sjúkdóms tilefni eru minkud, þá má taka dupt af Hvannarót, þurkudum Einirberjum, Horblødku og Brennisteini, jafnt af hverju, blanda því saman og géfa þaraf sjúka gripnum 3 lód 3svar sinnum daglega í vatni, og fara því fram daglega, uns sjúkdómurinn er batnadur. Þegar nautpeníngur nú fer ad géta jetid, er bezt ad ad velja honum þad hey, er honum fellur bezt, þó má þad hverki vera ornad né miglad; gott er og ad hræra nockud af mjøli úti vatninu hvaraf hann á ad drecka, en opt er bágt ad fá sképnur til ad drecka þad, og verdur þá ad géfa þeim hreint vatn. Naudsýnlegt er ad sjá um, alltaf standi vatn hjá sképnunni, svo hún géti druckid svomikid sem hún vill.

## § 12.

### Um Miltis-bráddauða (Miltbrand).

Jafnvel þótt menn kalli sjúkdóm þenna svo, þá fylgir honum ei ætíð dauði í miltinu; en opt fá gripir, er af honum deya, dauða í lifur og lúngu, magann eða garnirnar. Heit og ákaflega þur sumur, skortur á vatni, ella þá skémmt vatn, eða mikill kuldi á vetrum, géta géfið tilefni til þessa sjúkdóms. Veiki þessi byrjar svo, að kýr jeta lítið eða eckért, hætta að mjólka, eyrun eru köld og seigt slím rennur útúr munninum, munnurinn er heitur, hárin standa úti loptið, augun eru dauf og vogur rennur útúr þeim, hjartað slær hardt og tídt. Þessi kénnimerki láta sig þó ei ætíð í ljósi, og stundum merkjast þau alls ecki, deyr gripurinn þá optastnær allt í einu, án þess menn hafi orðið varir nockurra veikindamerkja hjá honum, og áðurenn honum verður hjálpað; þegar svo er, kémur dauðinn optastnær fyrst í miltið. En þótt áðurtalin kénnimerki merkist, er samt opt bágt lækníngu við að koma, og opt deyr sképnan mjög hastarlega; þessvegna er það nauðsynlegt, þegar menn sjá hin fyrstu kénnimerki, strax að reyna til að fyrirbyggja sjúkdóminn með því, að fyrst á blóð að taka á hálsæðinni, og láta blæða fullar 2 merkur, setja baunir framaná hóstina, og géfa gripnum 2 lóð af Saltpétri, uppleystum í vatni, á hverjum morgni í 10 eða 12 samfleytta daga. Baunin á að liggja fullann hálfann mánuð, en þó skiptast um dagliga.

Þecki madur þarámóti á kénnimerkjunum ad kvillinn sé byrjadur hjá sképnunni, þá á allt ad einu sképnunni blód ad taka, setja baun og géfa 3svarsinnum daglega hálftannad lód af Saltpétri í vatni, og blanda þarí Hunángi eda Sirópi; sömuleidis á ad setja stólpípu 2svarsinnum daglega. Afalli veikin um vetrartíma, er bezt ad halda gripnum vel heitum, géfa honum létt hey, smátt, gott, grænt og vel þurkad úthey eda todu, en þó í minna lagi; sé vor eda sumartími og ei kaldt, á gripurinn ad gánga úti, en ef inni stendur, verdur hann ad hafa nóg ad drecka. Hafi sjúkdómurinn ei farid batnandi á ödrum degi, er þeckist þaraf, ad hjartad slær hardt og tídt, þá er ei annad fyrir enn ad taka blód ad nýu, setja stólpípu, géfa Saltpétur, og svo framvegis, uns kvillinn fer batnandi.

Eg vil ei undanfella ad rita hér nockur ord eptir þeim nafnfræga Dýralæknara, Etatsrád Viborg, hvar hann í riti sínu um Miltisbrand og Kúaveiki segir svo: Þessi veiki, segir hann, er megn Igérdarkalda (Betændelses-Feber) sem fljótt færir med sér dauda í inniblum, lúngum, miltinu og lifrinni; flestallar sképnur géta fengid hana, og hvor sképna fær hana af annari, og enda fólkid stundum af sképnunum. Hennar kénnimerki eru þessi: sképnan oskrar, ber nidur fótunum, dettur nidur, fær sinateygjur og deyr med froduna í munninum. Stundum géta lidid 3, 5 eda 7 dagar, ádurenn sképnan deyr, eda lengur. Heit og þur sumur, þá hardt er um vatn, vætusamir og upp-

þornadir mýrlendis stadir géta gésid tilefni til veiki þessarar, somuleidis skémt fódur, illa þurkad og miglad, óholt lopt í fjósum, hesthúsum edur fjárhúsum, klakad hey, slæmt vatn og svo framv.; líka fær hver sképnan þenna kvilla af annari, sem fyrr var sagt. Hægra er ad fyrirbyggja veiki þessa, enn ad lækna hana þá hún er komin. Géti madur uppgötvad tilefnid til veikinnar, verdur ad kosta kapps um ad koma í veg fyrir það; feitum sképnum á blód ad taka, setja á þær hánka, og ausa á þær köldu vatni 2svar eda 3svarsinnum daglega. Mörgum sképnum á ad géfa seydi af styrkjandi rótum og börkum, svosem af vídarberki, eikarberki, Malurt, Kamóm.llu-blómstrum, hvarí blandist edik eda brennivín, þannig, ad í 1 mörk afseydi þessu hellist 1 peli af brennivíni og 1 af ediki. Þeir, sem ecki hafa rád til þessa, géta géfid nautpeningi hreint vatn med litlu af salti. Þó sképnan skjálfi, á madur allt ad einu ad ausa yfir hana köldu vatni, og núa þaráofan med heyi. Ef sképnan er stór og sterk, á henni blód ad taka og láta blæda 2 eda 4 merkur; blódtakan á ad ítrekast eptir blódsins náttúru, því hafi það þyckva bláa himnu, á aptur blód ad taka, ad 5 eda 6 tímum lidnum; en sé blódid þyckt og svart sem tjara, er skjaldan gagn ad taka blód. Adgætandi er, ad ef bólguhnútar koma útum kroppinn, þá má ei ausa köldu vatni yfir sképnuna, heldur á ad géra skurdi í hnúta þessa, svo vessinn, sem þarí er, géti útrunnid.

## 7 Kapítuli.

### Um val, uppeldi og medferd á Saudfénadi.

Aungvu rídur Íslendíngum meira enn ad vanda fé sitt, sjá til ad þad sé vel passad og af gódu kyni komid. Ýmsar tilraunir hafa verid gjordar til ad bæta fjárrækt á Íslandi, en fáar af þeim hafa ad gagni komid; var sú en seinasta, er Conferentsrád M. Stephensen gjordi, landinu litid happadrjúg, og varla mun þess ad vænta, ad fé úr odrum heitari londum géti þrifist á Íslandi; hitt mundi lángtum rádlegra, ad menn veldu vel úr því, sem til er í sjálfu landinu, því stór munur er á fé þar í ýmsum stodum. Þannig mun enginn neita, ad stór munur er á fénadi Húnvetnínga og Flóamanna, því fé þeirra fyrri er annálad fyrir stærd og gædi, hinna þarámóti er vesælt og litid. Nú væri vissulega mikid undir því komid ad sú hin betri tegundin, eg meina Húnvetnínga féd, breiddist útum landid, og mætti þad odrum héredum til mikils gagns koma. Mest rídur á því, ad féd sé stórt, feitlagid og ullargott, og þetta þrennt mun Húnvetnínga fé hafa til ad bera framyfir flest annad á Íslandi.

Dýralæknarar eru samdóma í því, ad mikid sé komid undir því, ad hrútar séu valdir einka vel, en kénnimerki á gódum hrút eru þessi: hann á ad vera

stór og vel varinn, ennisbreidur, med stór og falleg eyru, hálsinn lángur og digur med fallegri ull, hrygg-urinn breidur, kroppurinn sívalur og lángur, fæturn-ir lángir og sterkir; ullin á ad vera fín, mjúk og hvít, og aungva svarta eda mórauða bletti á hrúturinn ad hafa, svo framarlega menn vilja hafa alhvítt fé. Ecki má hann vera eldri enn hálfs þridja eda 3 ára.

Til ad géta þeckt heilsu á fé þéna þessi kénni-merki: ef féd ber hofudid hátt, hefir falleg, opin og gladleg augu, þvalar nasir, þó án mikils slíms; hafi þad enga slæma lykt af munninum, hvíta og hreina túngu; ef fæturnir eru nettir og sterklegir, ull-in vel föst á skinninu, herundid fallegt, hvítt og kláda-fritt, ef þad etur vel og jórtrar, og séu ædarnar í augunum raudar, þá má ætla ad féd sé hraust og heilbrygdt. Hafi féd þarámóti nockra bletti á skinn-inu, sé ullin herd, þur og grá-gulleit; sé kindin dauf-leg og hengi hofudid nidur í jordina og þarhjá mjeg andfúl; sé túngan og tannkjotid bleikt, ædarnar í aug-unum bleikraudar eda gular, og greftur vellur útaf nosunum, sem líkist nasavilsu; þá er allt þetta ó-yggjandi kénnimerki þess, ad féd ecki sé friskt eda heilbrygdt.

Aldur á fé þeckist á þessum merkjum: á fyrsta ári eru þær 8 framtennur hvassar, á odru ári losna bádar framtennurnar, og í stad þeirra koma adrar 2, sem hægt er ad þeckja á stærd þeirra og breidd: þá er kindin 2gja ára. Á þridja ári losna aptur 2 tenn-

6*

ur, en þad eru þær, sem standa vid hlidina á þeim seinastnefndu, og í þeirra stad koma adrar breidari og stærri, og nú er kindin þrévetur. Á fjórda ári fellur saudkindin aptur 2 tennur, og koma þar aptur adrar 2 nýar; þegar kindin hefir þannig 6 nýar og breidar tennur, er hún 4ra vetra. Á 5ta ári losna þær 2 ytstu tennur, sem kallast horntennurnar, og koma þar þá aptur 2 nýar í þeirra stad; hafi kindin þá 8 breidar tennur, er hún fimm vetra. Á 6ta eda sjeunda ári verda einkum þær 2 fyrstu breidu tennur gulꞏar, gamlar og brotna eda missast, þá þykir Dýraꞏlæknurum mál ad slátra kindinni, hvort heldur ær eda saudur er.

Þad væri verdt fyrir bændur, þegar þeir á haustum slátra lombum sínum, ad velja þau til lífs, sem væru stærst og ullarbezt, og hvorki selja edur farga á annann hátt; væri þá meiri von ad úr þeim yrdu vænar sképnur; líka er ei litid undir því komid, ad lomb eigi gott hinn fyrsta vetur, því þad er berꞏsýnilegt, ad allar sképnur, sem sveltar eru í uppeldꞏinu, verda ætíd minni og lakari, enn þær, sem hafa gott vidurværi. Reynslan er hér ólýgnust, því þeir bændur, sem hafa géfid vel lombum sínum, hafa ætíd átt betra, stærra og feitara fé, enn hinir, er dregid hafa vid þau fódur eda illa farid med þau. Líka vardar þad miklu, ad lombum sé ecki ofsnemma stíad frá módurmjólkinni; nockrir stía aldrei lombum sínum, og er þad mál manna, að þau lomb verdi bædi vænni og stærri enn onnur.

Það er að öðruleiti mjög nytsamt, að lömb fái hinn fyrsta vetur gott hey, og svo mikið þaraf, að þau þrífist vel; grænt, smátt og velþurkað mýrlendis hey er að öllu leiti betur þartil fallið enn taða, einkum sé hún migluð eða brunnin; þó má, þar sem ekki eru faung á góðu útheyi, gefa þeim töðu í útheyis stað, þegar hún er græn og velþurkuð; sömuleiðis á að vatna þeim á hverjum degi; það skaðar ei og er enda betra, að láta þau gánga úti daglega, þegar bærilegt veður er, en forðast verður að láta þau gánga á mýrlendi, ef öðru verður viðkomið, og hálendi er í nánd; líka er betra að hleypa þeim ekki út þegar hrímfrost liggur á jörðunni, fyrrenn hrímið er aftekið.

Salt er mikið hollt fyrir saudfénað, og er því einka gott að blanda dálitlu af salti í heyið við og við á veturnar.

Mikið ríður á, að vanda vel fjárhús bæði handa lömbum og fullorðnu fé; einkum er mikið undir því komið, að þau séu stór og rúmgóð, og standi heldur hátt enn lágt; gluggar eiga á þeim að vera, svo hitinn verði ekki ofmikill, því hann er mikið skaðlegur fyrir saudfé, einkum þegar því er beitt út á daginn. Fjárhús eiga að vera rúmgóð, því annars þrífst saudfé lángtum lakar.

Að endingu vil eg ráða öllum bændum til þess, að setja ei fleira fé á sig, enn þeir géti haldið fram í hörðum vetri, því þó útigángur reynist ástundum vel, þá er þó ei alltið á hann stólandi.

Eg veit, ad flestallt þad, sem hér var nú talid, er flestum lφndum mínum alkunnugt og liggur í augum uppi, en þad er líka svo mikilsverdt og árídandi fyrir þá, sem vilja verda gódir fjármenn, ad aldrei verdur gód vísa ofopt kvedin.

## 8 Kapituli.

### Um útvortis sjúkdóma á Saudfénadi.

### § 1.

#### Um Tóubit.

Öllum er þad kunnugt, hvad ċaldar vargur þessi drepur og rífur fé til stórs skada á Íslandi; eru sár þau, sem þaraf orsakast, opt ill vidgjerdar, þared þau annadhvert eru framaní sképnunni edur á hálsinum; en hvort sem heldur er, þá á strax ad taka þá dýrbitnu kind inní hús og athuga nákvæmlega hvort sárin séu grædandi; sídan þvo menn hid storkna blód af, og bada sárin nockrum sinnum daglega med kφldu vatni. Sé kindin holrifin, einkanlega framaní brjóstinu, er sjaldan lækningar von. Blædi kindinni ákaflega, verdur ad bada sárin iduglega í ediki og vatni, þa álúni uppleystu í volgu vatni, uns blódrásin stφd-

vast; líka er einka gott ad taka hégóma og láta ofaní sár, sem blæda; þegar blódrásin er stödvud, skal madur reyna ad sameina sárid svo nákvæmlega, sem verdur, leggja yfir þad ríur, sem dýft sé í olíu eda lýsi, edur og gjöra sárasmyrsli af Vallhumli, sodnum í ósöltudu nýu smjöri, edur og Blódrót, sem líka má sjóda í nýu smjöri, sía sídan smjörid volgt frá, og brúka sem smyrsli; smyrslum þessum á ad rjódra á línskaf eda mjúkar léreptsríur, og leggja í sárin, og skipta um einusinni daglega, þaráofan á ad leggja bindi og búa vel um. Séu sárin mjög djúp og framaná barkanum, gétur þad opt vel luckast ad sauma þau saman, en þó verdur ad sjá um ad kindin haldi höfdinu áiútu, svo sárid ýfist ei, þegar hún beygir þad apturábak; heppnast þad opt, med þessu móti ad lækna sár á barkannm. Séu augun sködduð á kindinni er ecki bata von, og er þá bezt ad skéra hana. Sár aptan á hálsinum eru minna skadvæn enn þau, sem eru framaná eda á hlidunum, einkum liggi þau djúpt, því þá eru optastnær stórar ædar særdar, svo sképtan deyr af blódmissirnum. Sár framaná nefsunum eda undir kjálkunum eru minna hættuleg, og læknast opt, þó stór séu, en ætíd er þá samt naudsyn ad passa vel uppá kindina, og halda henni inni, medan sárin gróa.

## § 2.

### Um Bólgu í júvrinu (undirflog).

Það er almenn trú á Íslandi, ad þegar ær fá

illt í júvrid, þá komi þad af því, ad flјúgji undir þær, er þetta eignad titlingi þeim, er Steindepill heitir (Motacilla oenanthe); en eckért er barnalegra enn hjátrú þessi, því hvad opt sem fugl þessi flygi undir mylkar ær, þá gétur þad aldrei gjört þeim nockud mein. Hitt er meining mín, ad orsökin sé sú, er Conferentsrád Stephensen umgétur, er hann segir svo:*) „vid kvilla þenna verda menn skjaldan varir í hinum fyrsta mánudi eptir fráfæruna, og næstum aldrei á ám, sem gánga med dilka; orsökin til kvilla þessa held eg sé mjólkurkonanna hardleiki, þared þær taka hardt á júvrinu, teima kindina á því innanum kvíarnar, og halda henni fastri á því, ji ofaní kaupid skélla á júvrid med hnýttum hnefa, svo ærin betur mjólki." Hver, sem hefir séd þessa vitlausu og miskunarlausu medferd á mjólkurkindum á Íslandi, og einkum ef hann þeckir lítid eitt til júvursins lögunar og byggíngar, hann mun brádum sannfærast um þad, ad þad sé engin furda þó ær opt fái illt í júvrid af þvílíkri medferd, sem, því midur! ei er svo skjaldgæf; því vil eg ráda öllum bændum, ef ær þeirra fá kvilla þenna, ad þeir alvarlega advari mjalta-konur sínar, vid ádur-nefndri hraklegri adferd, og géfi sjálfir nákvæmlega gaum ad, ad áminníngum þeirra sé hlýdt, og munu þeir þá verda fríir fyrir ad fljúgji undir ær þeirra. En beri svo vid, ad kvilli þessi komi, þá á

*) Sjá Veterinair-Selskabets Skrifter, 1 Deel, Pag. 208 og 209.

strax, sem merkist til bólgunnar, ad maka hana med smyrslum, sem búin séu til ad jöfnum pörtum af Laurberja-olíu og Althea-smyrslum; séu ei smyrsli þessi ad fá, má í þeirra stad tilbúa önnur á þann hátt, ad teknir séu Jakobs-fíflar (Erigeron alpinum) og sodnir í nýu ósöltudu smjöri; sídan er smjörid síad frá ádurenn þad storknar; eru þetta einka góð smyrsli til ad græda bólgu í júvrinu.

## § 3.

### Um Kláda á Saudfénadi.

Kládi kémur af óþrifum og slæmum atbúnadi, skémmdu og mjög migludu heyi, óhreinum, lágum og og ofheitum fjárhúsum; er hann opt slæmur vidfángs, þared sképnur, sem hafa hann, þrífast aldrei vel, og hvör kindin fær hann af annari. Bezt er því, strax sem vart verdur vid óværdargést þenna á einhvörri kind, ad taka hana strax frá þeim heilbrygdu, láta hana í hreint útihús, þvo hana vel í keytu eda sápu-vatni, ef fayng eru á, og maka alla þá stadi, hvar kládinn er, med grænni Sápu, eda áburdi, tilbúnum af ósöltudu nýu smjöri og Brennisteins-dupti. Naudsýnlegt er ad klippa ullina nockud burt af þeim stödum, hvar mestur er kládinn, svo áburdurinn geti nuggast inni húdina. Allar þær kindur, sem kládann fá, eiga ad medhendlast þannig, sem nú var sagt; en sé vor- eda sumar-tími, þá er gott þaradauki ad sund-

leggja fé i sjó, og á þartil ad velja gódann og blídann sumardag.

## § 4.

### Um Lús á Saudfénadi.

Þad veldur opt óþrifum á lombum og úngfé, er þau skrída kvik af lús; er þad einkum á mogrum og vesælum kindum ad ófénadur þessi safnast ad. Til ad fyrirbyggja þetta er þad bezta ráð, ad búa vel ad fénu, halda lambhúsum hreinum, en þó ei mjog heitum, sundleggja lombin i sjó i gódu vedri, edur og þvo þeim upp úr stækri keytu, volgum sjó eda soltu vatni; líka verdur ad géfa þeim hid bezta hey, því annars dragast þau upp úr uppdráttar óþrifum.

## § 5.

### Um Beinbrot.

Þegar kindur fá beinbrot, vardar miklu hvada bein brotid er, þvi sum beinin gróa fljótt og af sjálfu sér; þannig er þvi varid med rifbeinsbrot, ad þau gróa opt saman án þess madur verdi var vid. Verra er þegar fót- eda lær-leggur brotnar, þvi þá kostar þad mikid ómak ad lækna kindina, og verdur ástundum, þar sem eigi eru gód áhold eda faung til þess, bágt eda ómogulegt; betra er þvi strax i tíma ad

skéra kindina, ádur enn hún missir bædi öll hold og hamsa.

## 9 Kapítuli.

### Um innvortis sjúkdóma á Saudfénadi.

#### § 1.

#### Um Höfudsótt (Ringsyge).

Þegar kindur fara einfara, hama undir klettum, eda vid ár og gil, þar sem fossnidur er, halla undir flatt, 'og bita ecki nema med koblum, þá hafa þær Hofudsótt. Veiki þessi kémur af sulli, sem sinnst í heilanum; má hana med því lækna, ad bora gat á hofudid med þartil gjordum bor (Trepan), þetta kallast ad trepanéra; en ecki er þad annara medfæri, enn Dýralæknara, ef ad lagi á ad fara. Eg vil því ráda londum mínum strax ad skéra hofudsóttar kindur, því allar adrar lækninga tilraunir, enn þær nú toldu, eru ónýtar.

Kindur fá stundum kvilla, er líkist Hofudsótt, af því, ad smá kvikindi, einkum á sumardag, safnast fyrir í nosum þeirra, svo nasirnar bólgna og verda raudar; lækna má þetta med því ad sprauta ol.u inní

nasaholurnar. Nockrir halda ad Hofudsótt gángi í erfdir; sönnu á því veit eg ecki, en eigi er þad med öllu líklegt; sé þetta satt, ætti ad varast ad ala upp lömb eda hrúta undan þeim kindum.

## § 2.

### Um Búkhlaup og Blódsótt.

Magurt fé, sem lengi hefir gengid úti, og einkum hefir lifad af gömlu og skémmdu heyi, fær opt kvilla þenna, þegar vora fer, í gróandanum; deyr þá sumstadar fjöldi fjár af kvilla þessum og verdur ei adgjört. Þurkud Bláber eru einka gott medal vid kvilla þessum, og verda þau ad geymast vel og vandlega á vetrum, ef til þess skulu duga; má taka af þeim handfylli og láta í hey þad, er kindin á ad jeta. Líka má seydi gjöra af Blódrót eda Sortulýngi, og géfa kindinni þaraf nockra matspæni, þartil Búkhlaupid stedvast. Bezt er ad beita fé því, sem hefir kvilla þenna, á hædum eda fjallslendi, en láta þad ei gánga á mýrum eda votlendi, verdi því vidkomid. Lömb, sem hafa sjúkdóm þenna, má og lækna med því, ad géfa þeim ádurtalid seydi, eda þá litid eitt af mulinni krít í vatni.

## § 3.

### Um Orma.

Fé, sem er magurt og hefir lifad af slæmu heyi,

fær opt orma, þrífst þad þá ecki, og dregst þannig opt upp; þetta gétur lika opt komid af því, ef kindur drecka af mýrlendis eda scrarpollum. Hid bezta medal móti þessu, er ad taka 4 lód af ediki, 1 lód af salti og litid eitt af vatni, og géfa þetta inn einusinni á dag, í 6 eda 8 daga.

### § 4.

**Um Igjørdar-bólgu í Heilanum (Hjernebetændelse).**

Veiki þessi kémur helzt á sumardag i megnum sólarhita, og mun hún þó skjaldgæf á Íslandi. Hénnar helztu kénnimerki eru þessi: kindin stendur og hamir og hengir høfudid nidur; ennid og eyrun eru ákaflega heit; augun eru aptur og renna í vatni; munnurinn er heitur og þurr, og túngan þakin med hvítu slími; sumar kindur fá skjálfta og hristast einsog hrisla í skogi; adrar ráfa umkring med ringli, uns þær detta nidur. Strax og þessi merki sjást, á ad taka kindinni blód, og láta blæda toluverdt, sidan á ad géfa henni inn 1 qvintin af Saltpétri, uppleystum í vatni, 3svar sinnum daglega.

### § 5.

**Um Bráddauda á Lømbum.**

Þad er ei skjaldgæft ad únglemb hrinji nidur á vordag, fyrrenn þau komast toluverdt á fót; eru mest bregd ad því í keldu vedri og austan-nædingum

eda hreggvidrum, krókna þá morg af þessum nýbornu aumingjum úti, er þau fædast á nóttunni. Héradauki er almennur lamba sjúkdómur á Íslandi, er kallast Flog, og verdur hann morgum ad bana, er þad ei annad enn daudligar sinateygjur, sem lombin fá allt í einu, og detta þau þá um koll stundum daud í sama augnabliki. Kvilli þessi er líkur sjúkdómi þeim á bornum, er Ginklofi kallast, því hofudid og hálsinn reigist apturábak med ótkalegum teygjum, uns lombin deya, ástundum eptir miklar kvalir. Flest lomb, er eg hefi séd deya úr þessum flogum, voru feit og stædileg, og fengu veikina allt í einu ad kalla mátti; kostudust þau ástundum svo hátt í lopt upp ad furdu gégndi, og duttu þá opt daud nidur; en stundum urdu þau stíf, sem tré eda staur, og dóu eptir lánga þjáningu; þóktist eg þá sjá, ad kvillinn er af sama uppruna sem Ginklofinn, og verdur ad brúka vid hann oll hin somu medol; gétur þá skéd þau hjálpi ástundum. Á einu lambi, sem eg reyndi Opíum, sá eg stóra linun á sjúkdóminum, og odrum batnadi oldúngis eptir teluverdt stórann skamt af Opíums-dropum, nefnil. 5 eda 10 dropa hvern hálfann klukkutíma. Þad er gamalt rád, ad skéra rófuna af lombum þeim, er fá kvilla þenna, og láta blæda teluverdt, er ei ólíklegt, ad þad, sem morg onnur húss-medol, sé bygst á gamallri reynslu, og hafi máské stundum ad gagni komid; eg reyndi þad og á einu lambi strax í byrjun kvillans, og linadi því samstundis þarvid, þó vóru hin fleiri er dóu, máské af því þad

var gjört ofseint, Adferd þessi er og oldúngis samhljóda lækníngarmáta nýari læknara á Einklofa, sem halda ad hann komi af bólgu í mænunni, og taka því blód í meira lagi; væri því ei ólíklegt ad blódmissirinn, sem kémur þegar rófan er afskorin, hafi somu verkun sem blódtakan; en þó mun þetta rád, sem oll onnur í þessum kvilla, ecki óbrigdult vera, en ei er ólíklegt, ad þad optar hjálpadi, ef menn, ásamt því gæfu inn Opíums-dropa, einsog ádur er sagt, edur og settu lambid nidur í volgt vatn.

## § 6.

### Um Lúngnaveiki.

Veiki þessi byrjar optastnær med hósta og hryglu, þó er hóstinn ástundum lítill; kindin er ákaflega mædin, heldst ei vid hold og horast nidur; þegar kindinni er slátrad, eru bædi lúngu og lifur optast full af smáum, hordum brixlum eda hnútum, og sést þá opt til graftar í þeim. Þad er ei skjaldgæft, ad úngar kindur fá kvilla þenna, og er þá ei til neins ad láta þær lifa lengi, þar kvilli þessi er med ollu ólæknandi; þad er því rádlegt fyrir bændur í tíma ad slátra kindum þeim, er líkindi eru til, af ádurtoldum kénnimerkjum, ad brjóstveikar séu, því annars dragast þær upp, og verda svo ad lokunum sjálfdaudar.

## § 7.

### Um Bráddauda á Saudfénadi*)

Bráddaudi kallast almennt sjúkdómur sá, er allt í einu verdur kindum ad bana. Tilefni og adferd sjúkdóms þessa er ýmisleg og margbreytt; en optast

*) Árid 1833 var Dýralæknari Teitur Finnbogason sendur af Stipt-amtmanni Krieger til ad grenslast eptir Fjár-bráddaudanum á Austurlandi; fór hann í þeirri ferd um Árnessýslu- og Rángárvalla-sýslur, en vard, því midur! ecki svo mikid ágengt, sem skyldi, því þad var um þann tíma ad Bráddauti á fé er sjaldgæfur, nefnilega í Júlí mánudi. Hann reyndi samt sem ádur ad komast eptir orsökum Fjársýkionar, og gjördi einkum nákvæmlega tilraunir med gras þad, er almennt kallast Sýkinga-gras, (Narheticum calyculatum, Fjalla = bjarnarbroddur). Gras þetta meintu bændur í nefndum sýslum ad væri eitrad fyrir fé, og gæfi tilefni til Bráddaudans; drógu þeir þad af því, ad féd etur ei gras þad, nema mjög húngrad; en eptir hans tilraunum virdtist þad ei svo, því alls eckert var ad sjá á kind þeirri, er hann lét jeta teluvert af tédu grasi. Hann hefir þessvegna, í skírslu þeirri, er hann hefir samid um Fjársótt þessa, og sem sama ár var sendt til Rentukammersins, gétid þess, ad gras þetta eigi géti verid orsök til tédrar veiki á kindum, en játar jafnframt, ad kindur ecki jeti þad, sökum þeirra smábrodda, er á því finnast. Hann álítur því tédann Bráddauda á fénu einkum vera innifalinn í 3 veikindum, sem eru: 1) Uppþemba eda Vindveiki, 2) Vatnssótt, og 3) nockurskonar Bráddaudi (Pest).

er þó höfud-einkénnid, ad brátt verdur um skèpnuna. Almenníngi, sem ei hefir eptir ödru ad gánga, enn því, sem mest adkvedur, verdur þad því á, ad kalla marga ýmislega sjúkdóma á kindum, er bráddaudar verda, med þessu sameiginlega nafni.

Eptir ætlan minni eru einkum fimm tegundir af Bráddauda: hin 1ta er sú, er mest er algeng vid sjáfar-sídu, og hana vil eg kalla Fjöru-Bráddauda; hin önnur er illörtud umgángssýki, er Dýralæknarar almennt kalla Miltbrand (Miltis-bráddaudi); sú 3ja er illörtud Lúngnabólga; sú 4da er Vindveiki eda Uppþemba, og sú 5ta er Fjárbólá. En til þess, ad löndum mínum verdi þetta audskildara, þá vil eg hér nákvæmar tala um serhverja tegund þessa útaf fyrir sig, og hvernig þær verda fyrirbygdar og læknadar.

A. Fjöru-Bráddaudi er almennur vid sjáfarsídu, og í eyum, þar sem féd lifir mikid á fjörunni, og etur ýmsar þángtegundir. Kindin verdur allt í einu sem heltekin, dettur daud nidur, edur skjögrar stundum ádur litid eitt á ýmsar hlidar; kroppurinn verdur bláleitur, rotnar mikid fljótt og lyktar ákaflega illa, svo ad hverki hundar né hrædýr hreifa vid honum. Þad er mál manna, ad bráddaudi þessi sé algéngastur frá September mánudi til Janúarii mánadar.*) Menn halda ad sjúkdómur þessi komi af því, ad féd jeti

*) Sjá Veterinair-Selskabets Skrifter 1 Deel, Pag. 210.

eiturpoddu ofani sig med þánginu, en enginn hefir séd hana, eda veit meiri grein ad gjøra fyrir því. Ädr- ir géta til, ad innanum nockrar þángtegundir, sem saudféd jetur, séu eitradir sjóar-vextir, og er sú tilgáta, ad minni hyggju, eigi ósannsýnileg, og ómaksins væri verdt, ad tilraunir væru gérdar med fleiri þáng-tegundir, sem vaxa á Íslandi, af hverjum þær helztu eru þessar:

1) Klóþáng eda Bóluþáng (Fucus vesciculosus).
2) Pýckvaþáng, Ækti-þáng (Fucus nodosus).
3) Blødruþáng (F. divaricatus).
4) Nabbaþáng (F. serratus).
5) Hrossaþaungull (F. digitatus).
6) Maríu-kjarni (F. esculentus).
7) Sol (F. palmatus).
8) Sauda-þari (F. ovinus).
9) Sætiþari (F. saccarinus).
10) Sølvamædur (F. ciliatus).
11) Ødustélja-þáng (F. lycopodialis)
12) Fjøru-fax (F. aculeatus)
13) Litli þari (F. elisticus).
14) Vængja-þari (F. alatus).
15) Hviti þari (F. albus).
16) Raudi þari (F. sangvineus).
17) Sveppa-þari (F. fungularis).
18) Dún-þari (F. plumosus).
19) Grái þari (F. foenicularis).
20) Ullar-þari (F. laneus).
21) Pussa-skégg (F. corneus).

Allar þessar þara-tegundir vaxa í fjöru og á skerjum á Íslandi, og þó jetur féd allramest Nabba-þarann, Æti-þángid, Bólu-þángid, Solin og Solvamædurnar; en þad er ei ólíklegt ad sumar af þeim fyrrtöldu tegundum géti verkad sem eitur, einkum ef saudfé jetur mikid af þeim; í þad minnsta er þad almennt, ad kindur þær, er jeta mikid af Æti-þángi, fái opt innantökur og megna sótt. Þad væri ómakssins verdt ad reyna allar þær umgétnu þáng-tegundir á saudfé, og gætu menn þá gengid úr skugga um hvert nockrar eda hvorjar af þeim væru eitradar, og yrdu menn þá ad sjá til ad féd gengi ei á þeim skérjum, hvar slíkir eitur-þarar yxu, hvad ed væri þad bezta rád til ad fyrirbyggja þenna bráddauda, því svo deyr kindin fljótt, ad eldúngis ómögulegt er ödrum medölum vid ad koma, enn einúngis því, ad fyrirbyggja tilefni þad, er orsakar bráddauda þenna.

B. Miltis = bráddaudi (Miltbrand). Veiki þessi er brád og stríd Igjördarsótt, er innan skamms orsakar sljótann holdsúa og rotnun (Kolbrand), svo dauda-sár detta á sképnuna allopt bædi utan og innan, þó er þad almennast, ad sár þessi finnast í þörmunum, lúngunum, lifrinni eda miltinu, af hvorju sjúkdómurinn í endverdu líklega hefir fengid nafn sitt. Þau helztu kénnimerki hans eru þessi: kindin jarmar aumkunarlega eda stynur þúngann, kastar sér nidur, en stendur þó upp aptur, krafsar med fótunum í jerdina og eingist saman, dettur svo

nidur med hördum sinateygjum og deyr allt í einu med froduna í munninum; opt varir þetta mikid stutta stund, en stundum géta þó lidid 3, 5, 7 edur fleiri dagar, ádurenn kindin deyr. Þad ber opt vid í ödrum löndum, ad veiki þessi er algengust í heitum og þurrum sumrum, þegar vatnid þornar upp, svo kindur géta ei fengid annad enn lítid og slæmt vatn. Á Íslandi er hún þarámóti, eptir því sem eg veit, algengust á veturnar. Ýmsar adrar orsakir eru taldar til hennar, svosem lélegt fódur, illa þurkad og slædi-hey, óhollt lopt í fjárhúsum, nockrar grastegundir þegar þær frjósa, og sjálf sóttnæmi veikleikans, sem gjörir þad ad verkum, ad hvör kindin gétur fengid hann af annari; ecki mun þess heldur ad dylja, ad hann mun verri vera á láglendi og mýrlendi, enn þar sem dregur til fjalls; sömuleidis mun hann skjaldgæfari þar sem skógar eru. Þad er trú sumra á Íslandi, ad saudfé fái drepsótt þessa af grasi því, er menn kalla Fjárbana, og vaxa á, eptir söguságn sumra, í mýrlendis fúakéldum, en hvörki hefi eg fundid þessa gétid í Grasafrædum vorum, né gétad fundid þad eptir tilsögn annara, sem líka hafa lýst því mjeg ýmislega. Í vestur-eyum vissa eg ad sumir kölludu gras þad, er annars almennt kallast Kattartúnga (Plantago maritima) þessu nafni, og vildu sumir eigna því bráddauda þann á fé, er þar var algengur; en alltadeinu einsog gras þetta er lángt frá ad vera eitrad, eins álít eg tilgáturnar um þenna svokallada Fjárbana á engu bygdar.

Ymisleg ráð eru brúkuð til að umflýa veiki þessa, svosem: að tjarga saudfé, brenna brennisteini í fjárhúsum, en öll eru þau ónóg og hjálpa öldúngis eckért optast; þannig vissa eg suma tjarga fé sitt framaní með krossmarki; aðrir brendu tjöru, einir eða þesshattar í fjárhúsunum, og kom það, sem von var, ecki að neinu gagni, svo eg vissi.

Ecki er því að leyna, að fyrirbyggja mun mega opt að nockruleiti veiki þessa, og skédur það bezt með því að burtrýma áður nefndum tilefnum hennar, og mun það bezt lánast að minni hyggju á þenna hátt: 1) Sérhver bóndi skal vanda fjárhús sín, og r dur einkum mest á að því sé fylgt, þar sem veiki þessi er mest algeng; einkum ríður á að fjárhúsin séu rúmgóð, standi hátt, helzt á hólum eða hæðum, hvar því verður viðkomið; ómissandi væri og að hafa vindaugu eða stromp á fjárhúsunum, svo loptið géti haldist hreint og gott; halda skal þeim og sjálfum vel hreinum, og umfram allt verður að sjá um að þau ecki leki. 2) Hvern dag, þegar gott veður er, skulu fjárhúsin standa opin, svo loptið géti um þau blásið, því annars er hætt við að í þeim safnist óhollir dampar. 3) Fénu á að vatna þar sem hreint og gott vatn er, og má smali ei líða, að kindurnar, þegar hann stendur yfir þeim, drecki af óhreinum lækjum eða forugum mýrarpollum; eg veit af eigin reynslu, að saudfé hefir fengið héruefndann sjúkdóm af þessu, og dáið eptir stuttann tíma. 4) Þar sem veiki þessi er algeng, á að beita fé svomikið sem verður á fjallendi, eða sé

þad eigi nálægt, þá þar sem eru hólar eda holt, og varna því ad gánga mjøg á mýrlendi, einkum þar, sem smáflóar eru. 5) Halda á fénu hreinu og þuru ad svo miklu leiti sem møgulegt er. Etatsráð Wiborg rædur til*) ad ausa køldu vatni yfir féd, og sundleggja þad, þar sem þessi kvilli gengur. Sá sami rædur og til ad taka feitum kindum blód, setja á þær hánka, og mun ráð þetta ad vísu gott, en bágt mun því vid ad koma, þar sem fjøldi saudfjár er. 6) Hafi veiki þessi látid sig í ljósi á fénu, þá er ad óttast, ad hver kindin fái hana af annari, og er þá mikils skada von; þessvegna skal strax taka þær veiku kindur og hafa í húsi útaf fyrir sig; sømuleidis á smali ad sjá til, ad ei komi fé hans saman vid annad fé, hvar sóttin gengur. 7) Hafi drepsótt þessi tekid adsetur sitt á nockrum bæ, svo ad hver kindin fái hana af annari, þá á ad reykja í fjárhúsunum med þeim svokallada Klór-reyk (Saltsýru-reyk); skédur þad á þenna hátt: ad taka á 2 parta af salti, og 1 part af Brúnsteinsdupti og hella þarí sterkri Brennisteins-sýru,**) þetta á ad ítreka optar, en verdur ad

*) Sjá Etatsráð Wiborgs Afhandling om Miltbrand og Qvægsyge.

**) Dupt þetta, ásamt Brennisteinssýrunni, er hægt ad fá á Apothekum eda hjá Fjórdúngslæknurum, kallast þad almennt Pulvis ad fumigationes muriaticas, og er einka gott til ad eyda bannvænum drepsóttar dømpum; þannveg brúkast þad í Kólera og ødrum banvænum

sjá til ad reykurinn sé úr fjárhúsunum ádurenn féd er innlátid, líka er varúdarverdt, ad reykurinn sé ei sterkari enn svo, ad vel megi þola, því annars er þeim, sem þetta verk gjörir, sjálfum skadi búinn. 8) Ecki væri af vegi ad kinda vid og vid Einir-hríslum í fjárhúsum, þar sem annadhvert þessi eda adrar sóttir gánga.

Kindur þær, sem veikar verda, á ad medfara sem nú segir: taka á þeim blód, sem feitar eru, sem bezt skédur þannig, ad dálítid sé tekid aptanaf rófunni þartil ánægjanlega hefir blædt; strax á líka ad setja hánka á síduna, samt ausa vatni yfir kindina 2svar eda 3svar sinnum daglega; ecki þarf neinn ad óttast ad gjöra þetta þó kindin skjálfi, því hún hefir engu ad sídur gott af ad badast í köldu vatni; þó, ef svo ber vid, ad merkist til smáþrimla á kroppnum, þá má kindin eigi badast, því annars fer sjúkdóms frumefnid úr kyrtlunum inní sképnuna aptur. Sé kindin mögur, á ad gésa henni seydi af vidirberki, Reinir-berki eda Hrísberki, blandad med dálitlu af edíki eda gódri sýru og brennivíni, sem hefir stadid á Hvannarótum.*) Fari nú kindinni vesnandi, má reyna

sjúkdómum og kémur opt ad miklu gagni. Þetta er og vandalaust ad gjöra, því eigi þarf annad enn láta ádur umtalad dupt á talerk eda í skál, og svo láta Brennisteins sýruna drjúpa til í dropatali.

*) Tak vidirbörk 2 lód, sjód svo í 3 mörkum af vatni hérumbil fjórda part kluckustundar, sía sídan seydid frá og

ad taka blód, og fara svo fram, sem nú var sagt. Ecki væri heldur af vegi ad setja kindinni stólpípu af mjelsúpu, bræddu smjeri og dálitlu af salti. Vilji kindin drecka, á ad géfa henni vatn, í hvorju sé hrært dálitid af súrdeigi og blandad med nockru af salti, sem svari hérumbil einni handfylli í vatnsfötu. Stundum ber þad vid, þegar kindinni fer ad batna, ad útum hana koma graftarkýli, skal þá á þeim stínga, og sjá vel um ad vogurinn óhindrad geti útrunnid.*) Rohlwes, sem álítur mikid undir því komid, ad kindin fái nóg ad drecka, rædur ad láta fulla vatnsfötu, hvari séu látnar 2 handfyllir af salti, standa hjá sképnunni, sem veik er. Hann rædur líka ad géfa Saltpétur 1 eda hálftannad lód, uppleyst í 2 morkum vatns, og þaraf géfist kindinni 2 matspænir nockrum sinnum daglega. Þaradauki álíta allir Dýralæknarar þad einka gott rád í sjúkdómi þessum, ad kindin sé haunkud eda í hana settar baunir.

C. Lúngnabólga er hin 3ja veiki, er menn ástundum nefna Bráddauda á Íslandi, kémur þad af því, ad sjúkdómur þessi verdur ástundum svo algengur, ad margar kindur fá hann allt í einu, og deya þá sumar af þeim opt snogglega, fylgir honum þá

---

blanda þarí 3 matspónum af ediki og 4 matspónum af Hvannarótar-brennivíni; af þessu seydi á ad géfa kindinni 2 matspæni nockrum sinnum daglega.

*) Sjá Etatsráð Wiborgs Afhandling om Miltbrand og Qvægsyge, Kbh. 1821.

opt illa kynjud magnleysis Koldu-veiki (sem almennt kallast af Dýralæknurum asthenisk Feber). Einkénni sjúkdóms þessa eru: kindin hefir hósta, hriglu, og er mjög mædin þá hún gengur, hún vill ei bíta eda jeta ef innistendur, en þyrstir mjög, hjartad slær hardt og tídt og kindin er óróleg, andardrátturinn er þúngur og fljótur. Þrennt er til um endalykt veikleika þessa, sem er: 1) Ad kindinni batnar smátt og smátt af sjálfri sér; 2) edur og ad úr því verdur lángvarandi brjóstsýki, svo kindin er simogur og dregst smátt og smátt upp, ella og 3) ad hún deyr snögglega. Ýmsar eru orsakir til veikleika þessa, svosem votvidri og óstödug vedurátta á haustum og vetrardag, súgur í fjárhúsum, sem annars eru trodfull af saudfénadi, saggaog vætufull fjárhús, miglad hey, slæmt vatn. Ásigkomulag loptsins, sem orsakad gétur kvilla þenna á saudfénadi, er almennast á vor eda haustdag. Kindur þær, sem fá veiki þessa, eru optastnær hinar feitustu og vænligustu, og er hún þeim líka ástundum hvad hættulegust; þeim á strax ad taka blód, þegar til veikleikans merkist, og láta blæda í frekara lagi; líka rídur mjög á því, ad kindin hafi nóg ad drecka, því optast þyrstir hana mjög, en adgæta verdur þá, ad druckurinn má ei kaldur vera, heldur skal úr honum tekid kaldakulid, og láta á í hann dálítid af Saltpétri, hérumbil 2 lód í eina vatnsfötu; setja á stólpípu med mjölsúpu, bræddu smjöri og dálitlu af salti. Sé kindin mjög magnlitil, má géfa henni fáeina Hoffmannsdropa eda Hvannarótar-brennivín; en

þyngist mjög um andardráttinn á aptur ad taka blód, einka gott er líka ad hánka kindina á bríngukollinum á einum eda fleiri stødum. Dragist veiki þessi í lángdrag, þá er skjaldan bata von, því þá grefur í lúngunum, og þá er bændum rádlegt ad slátra sképnunni. Géti madur komist fyrir orsakir sjúkdómsins, verdur ad svo miklu leiti sem mögulegt er ad koma í veg fyrir þær.

D. Uppþemba eda Vindveiki (Trommesyge) er hin 4da tegund er orsaka kann Bráddauda á saudfénadi. Veiki þessi kémur þaraf, ad féd jetur ofmikid af megnu sterku heyi, svo gángur kémur í garnirnar, kindin uppþembist þá, og deyr innan skamms, ef henni ei er hjálpad. Menn eru vanir ad hjálpa kindum þeim, er hafa veiki þessa, þannig: ad madur géfur þeim inn nockrar theskeidar, eda sem svari litlu spónbladi af Hvannarótar-brennivíni nockrum sinnum daglega. Dýralæknarar géfa 2 qvintin af Steinolíu í 2 matspónum af brennivíni, og hjálpi þad ecki, stínga þeir á kindinni med mjóum bor, (um hvorn ádur er talad, og hvors lögun séft á medfylgjandi töblu aptan vid bækling þenna); þad gjörist á þann hátt, ad madur klippir ullina vandlega burt í náranum á vinstri sídu, og stíngur sídan bornum inn nockrum fíngurs-breiddum frá mjödminni, á líkann hátt og ádur er umgétid vid Uppþembu á nautpeníngi. Borinn skal vera álíka lagadur og gétid er um ad framan, álíka digur og pípuleggur, og hérumbil 3 þumlúngar á lengd.

E. Fjárbóla edur Spanska pestin. Á medal hinna versku sjúkdóma, sem nockurntíma hafa látid sig í ljósi á Íslandi, má án efa telja þá svonefndu sponsku fjárdrepsótt, sem árid 1761 kom med þeim sponsku hrútum, sem bata áttu fjárræktina. Hún byrjadi fyrst á Sudurlandi, en færdist sidan smátt og smátt uppí Borgarfjordinn, og vídar. Í ferdabók Vice-Legmanns Eggerts Olafssonar og Landphysici Bjarna Pálssonar er talad um hana á þessa leid:*) „Veikin byrjadi á Sudurlandi og hefir nú útbreidst svo mjeg, ad óttast má fyrir, ad fé almennt útdeyi; veikin byrjar med vidbjódslegum kláda um allann kroppinn, ullin dettur af fénu, og raudir blettir sjást á horundinu; þetta byrjar fyrst í nárunum og aptantil vid rófubeinid og á hálsinum, med óþolanlegum kláda fyrir skepnuna; skinnid verdur þyckt og hleypur saman í hruckur; kindurnar verda meir og meir magnlausar, og deya ad lokunum; fáeinum kindum, sem haldid var inni og smurdar vóru med hákallslýsi, súru smjeri og edru þesshátter, batnadi ad lokunum eptir lángann tíma; Landphysicus Bjarni, sem nákvæmlega ransakadi veikina, héldt ad hún kæmi af litlum ormi, sem hann fann í horundinu umkríng hársræturnar. Ormur þessi var hvítur, gagnsær og svo lítill ad ei mátti sjá hann med berum augum. Þegar þeim veiku kindum var slátrad í tíma, þá var kjotid óskémmt ad sjá, og var

*) Pag. 979

hvorki lyktar- né smeck-slæmt, ecki heldur vard þad neinum ad skada, sem bordadi þad." Þegar þessi vonda veiki hafdi gengid nockur ár og gjört óbætanlegann skada, útkom loksins árid 1772 konúngleg skipan, sem baud ad slátra öllum þeim veiku kindum, hvarvid veikinni loksins slotadi 1779*). Þetta er nærfeldt allt, sem eg hefi gétad fundid skrád um veiki þessa, og er þad mikil furda, ad hvorki hinir lærdu menn á þeirri öld hafa eptir sig látid gleggvari frásogn um hana, né ad Conferentsrád M. Stephensen sál. ecki nefnir hana í ritgjørd sinni um veikindi á saudfénadi á Íslandi.**)

Af ádurteldum ritum um veiki þessa er ei hægt ad sjá, hvorskyns hún hefir verid, þó þykir mér líklegast ad þad muni Fjárbóla verid hafa, því ad þad hafi verid kládi, finnst mér óliklegt, þared veikin var svo bannvæn, og því vil eg hér ad eins tala frekar um Fjárbóluna, þared hæglega gæti skéd, ad hún í annad skipti sýndi sig, og mættu þá eptirfylgjandi rád vel ad gagni koma.

Fjárbóla (Faarekopper) er mjøg sóttnæm veiki og þaradauki mikid hættuleg, ef hún er látin sjálfrád, hún útbreidist þá optast mikid fljótt og hlífir aungvum, nema einúngis þeim kindum, er hana hafa haft ádur. Kénnimerki hennar eru þessi: féd hættir ad jeta, en þyrstir mjøg, þad jórtrar ei, augun verda

*) Sjá Eptirmæli 18du aldar, bls. 516.

**) Sjá Veterinair-Selskabets Skrifter, pag. 206.

bólgin, raud og fljóta í vatni; útúr nefunum rennur þykt, hvítt slím, sem stundum er gult; eyrun verda köld; þad hengir höfudid nidur og stendur í kudúng og krókir; raudir nabbar sjást líka á hörundinu, sem verda ad bólum, koma þá stundum stórar skéllur af þeim og grefturinn klístrar hárin saman, ullin dettur þá optast af, hvar bólurnar hafa setid, en kroppurinn og höfudid bólgnar upp, stundum verdur sképnan blind og deyr opt ad 8 dögum lidnum, en stundum eptir lengri tíma. Þad óbrigdulasta og bezta rád vid veiki þessari er bólusetníngin.*) Hún er gjörleg á hverjum tíma árs sem vera skal, en bezt er ad gjöra hana sem fyrst, ádurenn veikin hefir útbreidt sig, í gódu og ei mjög köldu vedri. Ymsir stadir á sképnunni hafa verid valdir til bólusetníngar, t. d. innantil í eyranu, aptan undir rófunni eda framantil undir bógnum, hvar minnst er ullin. Adferdin vid þetta verk er nærfeldt hin sama og vid Kúabólu-setníng á manneskjunum. Til bólusetníngar brúkast vessi sá, sem tekinn er af kindum hinn 11ta eda 13da dag eptir ad þær urdu veikar. Nálin, sem þartil brúkast, á ad vera 2 þumlúnga laung, hálfs þumlúngs breid, oddhvöss og beitt, og litid hol í annari hlid út til oddsins; skaptid á henni á ad vera fjórdúngur þuml-

*) Rohlver segir, ad varla hafi dáid 1 kind af þúsund fjár, er hann setti bólu. Hvilíkur skadi var þad þá ei, ad Íslendingar ei vissu þetta rád, þegar sú spanska fjárpest geisadi hjá þeim?

úngs á þyckt, 3gja þumlúnga lángt og sívalt, og er bezt ad bólusetjarinn hafi fleiri enn eina í takinu. Nál þessi finnst afmálud á koparteblu þeirri, er finnst aptanvid bækling þenna.

Kindur þær, er bólu skal setja, leggjast á bord eda fjøl, til hægdar fyrir bólusetjarann; kindin, sem bóluefnid er tekid af, liggi á hina hægri hlid bólusetjarans, og sé hún bundin; sídan tekur bólusetjarinn nálina, heldur henni á líkann hátt og skrifarapenna, stíngur oddi hennar í bóluna, hvar bóluvessinn er hreinn og skær, hallar henni svo nockud uppá vid, svo ad vessinn renni um hinn hola flot nálarinnar, og sídan stíngur hann oddinum hægt á ská inní skinnid, þó eigi dýpra enn ad sjá megi odd hennar; þegar nálin er komin svo lángt inn, ad sá holi flotur er inni, á hún ad snúast um, svo ad hann snúi nidurávid ad holdinu, og þegar nálin dregst út aptur, þá leggur bólusetjarinn hinn vinstra þumalfíngur ofaná odd nálarinnar, svo bóluefnid ei renni út aptur; þegar þessa er gætt, þá er rétt sett bólan.*)

Féd, sem er bólusett, látist í annad hús uns lokid er bólusetníngu; ad 10 eda 11 degum lidnum frá því bólan var sett, á þad bólusetta fé ad skodast, og þad, sem bólan ei hefir komid út á, eda ecki hefir fengid stóra og fullkomna bólu, á ad bólusetjast aptur;

*) Dieterichs segir, ad flínkur bólusetjari, sem hefir frískt fólk sér til hjálpar, géti á þennann hátt bólusett 500 til 1000 fjár á dag.

en þó skal hér vandlega adgæta, því stundum kémur bólan ei út á þeim stad, hvar hún var sett, heldur nálægt honum.

Beri svo vid, ad hinn 4da dag eptir bólusetnínguna finnist á fénu háar og fullar bólur, sem á hinum 6ta degi fyllast med greftri og minda skorpu, þá er þad merki þess, ad bólusetníngin er ónýt, edur og ad kindin hefir fengid bóluna ádur henni var sett hún; sé þad syrra tilfellid, þá á kindin ad bólusetjast ad nýu,

Skyldi svo vidbera, ad nálin af vangæslu stíngist of djúpt inn, edur og ad önnur veiki fylgi med, svo ad þaraf kæmu illa ortud sár, þá er ei annad hérvid naudsýnlegra eda þarfara enn ad þvo sárin med volgu vatni nockrum sinnum daglega, og vilji þau ecki gróa af sjálfu sér, þá má leggja yfir þau léreptsríu, sem sé vætt í Vallhumals seydi nockrum sinnum daglega.

Þegar Fjárb. la gengur, þá ber þessa einkum ad gæta: 1) Ullin af þeim veiku kindum gétur meddeilt bóluna til annara heilbrygdra. 2) Heilbrygdt fé má ecki koma nálægt bólufé. 3) Fólk, er umgengst bólufé á ad vera hreinlátt og þvo sér vel og iduglega, því annars gétur þad fengid útslátt og kláda af ullinni og þeim sjúku kindum.



# 10 Kapituli.

## Um Hundaveiki.

### § 1.

Hundarnir eru þorf sképna, og reynslan hefir kénnt, ad þegar hundafaraldur hefir gengid, þá hefir fólk komist í vandrædi med sképnur sínar, er þá seinlega gánga undan manninum. Á Íslandi eru þeir ei svo mørgum kvillum undirorpnir, sem í ødrum løndum; eg vil því hér einúngis géta þeirra, sem þar eru skadlegastir og algengastir.

### § 2.

#### Þegar Hundar fá bein í hálsinn.

Þad ber ei svo skjaldan vid ad hundar fá bein í hálsinn, er þeir ei géta gleypt; þegar svo ber vid, á strax ad þreifa utantil á hálsinum, hvar beinid situr, edur og halda munni hundsins vel opnum, er þá opt hægt ad taka þad út med mjórri beygju-taung eda krók, gjørdum úr sterkum prjóni. En sitji þad lengra nidur í vælindinu, á ad hella í háls hundsins einum lýsispotti, og er, ad því búnu, opt audveldt ad ýta beininu nidur med mjóum staut, sem sé tilbúinn úr skídi og vafinn med fínum léreptsrium á enum nedri enda. Hjálpi þetta ecki, þá skal géfa hundinum upp-

sölumedal 1 eda 2 grøn af Uppsölu-vínsteini, uppleystum í 6 matspónum af vatni; helmíng af þessu skal gésa hundinum fyrst, og kasti hann þá ei strax upp, þá hinn helmínginn eptir hálfann kluckutíma.

## § 3.

### Um Sár og Bruna.

Ef hundar særast þarf ei annad enn sjá til ad halda sárinu vel saman, og sé þad á þeim stødum hvar hundurinn ei gétur nád sjálfur til ad sleikja sig, á þad vid og vid ad þvost í køldu vatni, og fara ad ødru leiti ad eins og ádur er sagt um Sár á Hestum.

Bruna-sár læknast bezt med Línolíu eda nýu og ósøltudu smjøri, en þó er bezt ad þvo þau ádur í volgu vatni.

## § 4.

### Um Beinbrot.

Beinbrot læknast bezt med því ad setja beinendana laglega saman, vefja síđan lérepi þarum og sauma þad vel saman, því binda um þad med þrædi eda mjóu bandi má ecki; utanyfir þetta á nú ad leggja 2 spelkur gjørdar úr skídi eda gyrdivid, þær eiga ad vera eins lángar og fóturinn er, og bindast fast med léreptsstrimlum; ef hundurinn liggur nú kyrr, þá lækn-

ast beinbrotid af náttúrunni, þó er ómissandi ad bada fótinn jafnadarlega med köldu vatni. Ecki þarf ad smyrja neinni feiti eda smyrslum á beinbrotid, því þad gjörir eckért gagn, en opt verdur ad gæta ad umbúdunum, ad þær ei losni ofmjög, og ef svo vidber, verdur ad festa þær aptur. Hérum 8 daga eptir beinbrotid er gott ad bada þau med Brennivíni*)

Á Dýralæknara-skólanum i Kaupmannahöfn eru beinbrotnir hundar. hafdir í smá-stium útaf fyrir sig, og breidt undir þá hey eda hálmur.

## § 5.

### Um Hunda-faraldur.

Þad hefir borid vid ad svo mjög hefir ordid um hundafaraldur, ad mein vard ad í mörgum stödum. Árid 1731 var svo mikill bráddaudi á hundum og tóum á Íslandi, ad þeir urdu vidutan og dóu ad stuttum tíma lidnum. Tóurnar gengu heim ad bæum og létu sig drepa**). Seint á 18du öld var og mikill bráddaudi á hundum um allt Nordurland og 1826 og 1827 bar líka á honum á Sudur- og Vestur-landinu. Veiki þessi sýnir sig med ýmsu móti, og er optastnær innifalin í bólgu (Igjörd-

*) Sjá J. F. C. Dieterichs Dyrlægebog.

**) Sjá Vice-lögmanns E. Olafssonar og Landphysici B. Pálssonar ferdabók, Pag. 981.

arsótt) í hálsinum, heilanum eda lúngunum, hverri ad er samfara Magnleysis-kolduveiki. Merki hennar eru þessi: hundar, sem ádur hafa verid frískir, hætta ad éta jetid, verda mjög hæglátir, latir og sofa sífeldlega, hósta jafnadarlega og æla upp því sem þeir hafa jetid, augun fljóta í vatni, og slefja rennur úr nösum þeirra, snorka þeir þá mjög af því, og eiga bágt med ad draga andann. Í fyrstunni er alltid Koldusótt samfara Hunda-veikinni, en þad er mikid undir því komid hvada gáng sóttin tekur, og hverja parta líkamans hún leggst á. Stundum verdur veikin ad bólgu í heilanum (Hjerne-Betændelse) og hundurinn deyr í ædi, fylgja henni þá optastnær sterkar sinateygjur, og frodan rennur útúr þeim, varir þá ei lengi ádur þeir verda mátt- og tilfinningarlausir og detta daudir nidur. Þeir, sem halda lífi eptir veiki þessa, eru í lángann tíma mjög aumir og skjálfa allir á beinunum. Opt kémur ígjörd í lúngun, og eru þá optastnær samferda ádurtalin kénnimerki veikinnar; sídurnar gánga ótt og títt upp og nidur; þar med fylgir einnig ákafur þurr hósti, óró og hardlífi, hundarnir fara útí skúmaskot og jeta eckert, þó fyrir þá sé sett. Sé nú ei géfinn gaumur ad þessu í tíma, verdur úr því Vatnssýki og Nirnunarsótt, þurra-hósti, Búkhlaup og daudinn sjálfur.

Strax sem úngir hundar verda raudeygdir, hætta ad jeta og drecka, liggja úti skúmaskoti og eru afskiptalausir af ellu, þá er bezt ad géfa þeim upp-

solumedal, sem um er gétid í § 2, samt setja þeim stólpípu med Vallhumals-seydi og nýu bræddu smjeri eda lýsi. Dýralæknarar géfa þá og Alóespillur hvorn tíma þartil þad á hundinu verkar; líka má þá sjá til ad honum sé géfid þunnt ad jeta, svosem nýmjólk misa eda annad þvílíkt; sé hann mjeg veiklulegur og skjálfi á beinunum, má hella ofaní hann tveimur mat-spónum af Vallhumals-seydi nockrum sinnum daglega. Séu ádurtalin merki til Lúngnabólgu, þá á ad géfa hundinum þessa saft: „Tak mulinn Saltpétur 1 lód, Glaubersalt 4 lód, dupt af Lackrís-rót 3 lód, og svo mikid af Sírópi, sem þarf til ad gjora saft úr þessu, og géf hundinum svomikid héraf, ad þessu sé lokid á tveimur dögum, þó er þetta mikid komid undir aldri hans og stærd." Þad er einka gott ad setja þessum veiku hundum stólpípu, samt hánka þá framaná brjóst-inu, og er þad góds viti þegar toluverd bólga kémur umhverfis hánkastadinn.

Verdi hundum þyngra og þyngra um andar-dráttinn, og merkist mikid til hóstans, hvad lítid sem hann gengur, þá er vatn í brjóstinu, og ei bata von.

Séu hundar mjeg magnlausir og skjálfi á bein-unum eda géti ei stadid, þá á ad géfa þeim Hvanna-rótar-brennivín, sem svari einni theskeid í senn, ásamt því fyrr umgétna Vallhumals-seydi; ecki heldur má géfa þessum sképnum annad ad jeta enn léttmeti, sem þó er nærandi, svosem nýmjólk eda mjelgrauta.

§ 6.

## Um Kláda.

Menn géra almennt greinarmun á þurra og vota kláda. Þurri kládi sýnir sig einkanlega á hofdi og hálsi, bógunum, og á þeim stødum, hvar minnst er af hárunum; hvar kládinn kémur undir, þar detta hárin af, og þar kémur offa=kládi. Bezt er ad þvo hundinum, sem hefir veiki þessa, uppúr volgu sápu=vatni iduglega, og bera svo á kládann þessi smyrsli, „Tak Brennisteins=dupt 2 lód, Lýsis=sápu 3 lód, og Terebintin = olíu 1 lód". — Hjálpi þetta ecki, verdur ad géfa búkhreinsandi medal og láta hann hálfsvelta uns kládinn hverfur. Vota kládi kémur helzt á hrygginn og ofantil á hálsinn, koma þar þá stórir hrúdurkollar med vætu og vilsu, og verdur kládi sá mjøg ljótur útlits; hundinn klæar þá mjøg; nuggar hann sér uppvid, þartil blódid rennur úr sárunum. Þesshättar kládi kémur mest á feita og lata hunda, hann er skadvænligur, og géta manneskjur, ef ei er adgád, fengid hann af þeim. Pad er naudsýnlegt ad géfa hundum lítid ad jeta og jafnvel svelta þá vilji menn lækna veiki þessa; maka skal hundana med ádur toldum smyrslum 5 eda sex daga í rennu, og hjálpi þad ecki, þá skal þvo þeim í vatni, hvarí Kopar=viktríl er uppleyst (nefnilega eitt qvintín af Kopar = viktríl uppleyst í hálfum pela af vatni), og ásamt því géfa Aloes=pillur, sem um er

gétid í næst undangángandi §, þángadtil þær gjöra fullkomna verkun. Þessar somu pillur má og géfa hundum, efad þeir hafa Ormasýki, sem opt ber-vid.

## § 7.

### Um Ædi á Hundum.

Þad er algengt í útlendum ad hundar verda ódir í hundadegunum, en engin dæmi veit eg til ad þad hafi skéd á Íslandi; þó vil eg hér géta um kénnimerki þessa óttalega sjúkdóms, því eg held þad eigi ómögulegt, ad hundarnir kynnu ad géta fengid hann í megnum sólar-hita og þurka-sumrum á Íslandi einsog annarstadar, og eru einkénni hans þá þessi: Öll náttúra hundanna umbreytist, þeir jeta þá hluti, sem hundar annars ecki vilja sjá, til dæmis, ull, fatnad, léreptsríur, skóbætur og fleira, þeir géta naumlega kýngt, og þad er líkast sem biti stædi í hálsi þeirra; þeir vilja gjarnan bíta menn, og nedri skolturinn hángir nidur og kjapturinn stendur opinn; þeir nasa þaradauki uppí loptid, og umkríng ýmsa hluti; rófan hángir nidur á milli fótanna; þeir verda einsog blindir, reka sig á marga hluti og bíta þarí; þeir óttast vatn og allt fljótandi. Apturhluti þeirra verdur magnlaus, og loksins deyja þeir í offalegu ædi, og sinateygjum eda visna allir upp.

Tilefni til veiki þessarar er megn hiti, vatns-

ieysi, og þó einkum, ad Dietericks meiníngu, ef þeir eigi fá ad fullnægja ærlunarfýsninni. Strax og vart verdur vid veiki þessa á ad drepa þann óda hund, því annars er ad óttast ad hann bíti fólk, af hverju þad sorglega leidir, ad menn, sem bitnir verda af ódum hundi, fá þann hinn sama hryllilega sjúkdóm.



# Viðbætir.

## 1.

### Merki á lífsæðinni hjá hestum og kvikfénaði.

Í ýmislegum igjörðarsóttum er það einkum áríðandi að gefa gaum að lífæðar-slættinum, og er hin bezta aðferð þartil: á hestum og nautpeníngi skal leggja flatann lófann á rifbeinin vinstra megin, ei lángt frá herðablaðinu, er þar ætíð hægt að finna hjartsláttinn; en til þess að géta aðgreint það náttúrlega lífæðarslag frá hinu, er finna má í igjörðarsóttum, verður maður nákvæmlega að géfa gætur að hvorutveggjum, svo maður ei seinnameir villist afvega í lækníngarmátanum. Hjarta-slátturinn, sem varla merkist til hjá skepnunni, þegar hún er heilbrýgð og í rólegu ásigkomulagi, verður í igjörðarsóttum audfundinn. Lífæð hestsins slær optastnær ámillum 48 og 54 sinnum í minútunni og stundum optar, þegar hann er heilbrygður; hjá nautpeníngi þarámóti slær lífæðin hérumbil 38 til 46 sinnum á sama tímabili. Í igjörðarsóttum slær slagæðin þarámóti hjá hestum frá 70 til 100 sinnum í minútunni, en hjá nautpeníngi 60, 70 eða 80 sinnum í eins lángann tíma. Þegar sóttin harðnar og veikleikinn vesnar, slær slagæðin harðara og smátt og smátt fljótara. Verði þarámót

lífædar slögin minni, þá rénar sóttin, og veikin batnar, og má mikid af þessu ráda, hvad lengi kvillinn muni vara. Verdi lífædar slögin þarámóti ónáttúrleg, eda þar komi millibil, hvari lífædin ecki slær, þá er það optastnær dauda-merki.

## 2.

### Um Blódtökur.

Það er víst sjaldgæft á Íslandi að nockur madur sé vidstaddur, sem géti tekið sképnum blód, og þyki mér því hér vel til hlýda að fara nockrum ordum um Blódtökur.

Dýralæknarar velja optast nær hálsædarnar til að taka blód á; þessar ædar liggja beggja megin vid barkann og vælindid framan og nedantil í hálsinum, og til þess að þær þrútni upp og verdi audsjáanlegar, á að binda bandi nedantil um hálsinn, það er að skilja, nedantil vid þann stad, er menn vilja taka sképnunni blód; band þetta á að binda að eins svo fast, að æd sú, er takast skal blód á, þrútni upp vid, og hnitist það þvínæst med hnút og lyckju; er þá bezt, þegar þetta er gjört, að lypta hofdi sképnunnar nockud uppá vid; séu hárin á hálsinum laung og mikil, er bezt að væta þau med vatni, svo þau leggist vel nidur að skinninu; sídan setur madur odd blódtöku-járnsins á ædina, sem nú er þrútin, svoleidis að eggin á blódtöku-járninu skéri hana lángsetis; bezt er

svo ad láta blæda í ilát, sem madur verdur ad vita hvad mikid tekur, og er þá hægt ad sjá hvad mikid blædt hefir; þegar blædt hefir nú, svo nægja þykir, og ávikid er vid ýmsa sjúkdóma hér ad framan, á ædin ad lykjast, svo sképnunni blædi ei ofmikid, hvad ed skédur á þenna hátt: Taka á nockurnveginn sterkann tituprjón, og stínga honum þvert í gégnum bádar randir sársins, sídan sé lockur tekinn af faxi eda tagli gripsins og bundinn þvert um báda enda tituprjónsins, hvarvid gatid á ædinni nákvæmlega apturlykst; vefja á hárunum optar enn einusinni um prjóninn, og hnýta vandlega, svo hnúturinn ecki géti raknad. Nockrum dögum eptir blódtökuna má taka tituprjóninn úr sárinu.

### 5.

### Hvornig setja á baunir og hánka.

Baunir og hánkar gjöra sama gagn, en þad er ad vísu minni þörf á ad géta um hvornig hánka skal þar flestir bændur bera vel skinbragd á adferdina þar vid, þó skal hér drepid á hvorutveggja.

Þegar setja skal Baunir (sem er eitthvört hid ágætasta medal í mörgum veikindum) á hesta, þá á fyrst ad taka þyckt ledur, skéra af því krínglu, sem sé 3 þumlúngar í þvermál, í midjuna á krínglu þessa á ad gjöra gat, sem sé hálfur annar þumlúngur í þvermál, þarvid verdur nefnd ledur-kríngla álíka sem flat-

ur hríngur; innri rönd hríngs þessa á að vera sívafin með hör eða niðurtánum hampi, svo að lítið gat sé igégnum hrínginn; síðan dýfir maður honum í Terebintin-olíu eða smyr hann með smjöri, sé olían ecki fyrir hendi. Ef baunin á að setjast á bríngu hestsins, þá á skinnið framaná bríngunni að þverhruckast, og hrucka þessi á síðan að skérast ofanfrá niðurávið, á þann hátt, að skurðurinn sé hálfur annar þumlúngur á stærð; síðan á skinnið að burtflá allt að kjötinu svomikið að baunirnar géti legið þar,*) að hverju búnu baunirnar leggjast í sárið; þegar þær hafa legið þar í 3 daga, þá á vogurinn, sem þar hefir fyrirsafnast, að út hreinsast, og sjálft sárið vandlega að þvost umhverfis á hverjum degi. Þegar liðnir eru 12 eða14 dagar, mega baunirnar burttakast, og skyldi þá viðbera að sárið hefði apturlykst, á það að opnast að nedanverðu svo mikið, að baununum verði náð út og grofturinn verði vandlega afþveginn, líður þá ei á laungu áðurenn sárið grær af sjálfu sér. Öll hin sama er aðferðin, þá baun skal setja á bóga, læri, síður eða aðra staði.

Nautpeningi skal baunir setja á þenna hátt: skurð, eins þumlúngs stórann, á að gjöra ígégnum skinnið, plocka síðan með þumalfíngrinum skinnið frá kjötinu niðurávið og til hliðanna, að holt verði undir skinnið; að því búnu smegjast baunirnar ofaní þetta þannig tilbúna sár. Dýralæknarar brúka stundum í

*) Menn brúka optast á dýrum fleiri enn eina baun.

stad bauna hina svörtu Hnerrarót (Radix hellebori nigri), skéra af henni 5 eda 6 mjó og þumlúngs-laung stycki, binda þau saman med finum þrædi og leggja í sárid. Ad ödru leiti á med sár þessi ad fara sem ádur er sagt.

Til þess ad géta hánkad hesta vel, er naudsýnlegt ad smída sér góda hánkanál, hún gjörist á-líka og stór reidinga-nál, hérumbil 6 þumlúnga á lengd, og 1 þumlúngur á breidd, framantil á hún ad vera tvíeggjud, og augad, hérumbil 1 þumlúngs lángt, sé þversum á hinum aptari enda. Þar sem hánka skal setja þverhruckar madur skinnid, og gjörir skurd í hruckuna lángsetis, svo sárid sé hérumbil 1 þumlúngur á lengd; 4 þumlúnga nedanverdt vid hinn fyrsta skurd á ad gjöra annann á sama hátt og eins stórann, einúngis er adgætandi, ad skurdurinn ecki fari dýpra enn gégnum sjálft skinnid; sídan á ad taka reim af klædi, lérepti eda finni einsképtu, eda hvad betra er, nockurnveginn breidt sockaband, sem sé þumlúngs breidt og hálfrar álnar lángt. Þetta á ad maka í smjöri eda lýsi og þræda igégnum þverauga hánkanálarinnar og stínga sídan nálinni þétt med skinninu frá þeim efra skurdi til þess nedri; bádir endar hánkans eiga sídan ad bindast saman, svo hánkinn ei géti útfallid. Ad 3 dögum lidnum á hánkinn ad færast, sem itrekast á hvörjum degi, ecki má heldur forsómast ad halda sárunum hreinum, þessvegna eiga þau ad þvost daglega. Eptir 12 eda 14 daga á hánkinn ad útdragast, og gróa sárin þá optastnær brádum. Skyldi

svo viðbera, að bandið eða hánkinn þrútnaði svo mjög af grefrinum, að eigi yrði fluttur fram og aptur, þá er bezt að skipta um, og setja í staðinn annann mjórri og þynnri hánka.

## 4.

### Hvornig blóðrás á að stöðvast.

Það eru einkanlega 2 meðöl, með hvörjum bezt er að stilla alslags blóðrás, og er það annaðhvört að binda fyrir æð þá er blæðir, eður og að lykja henni með því að þrýsta á hana, en hvörugt af þessu er bændum tilráðandi, að Rohlves meiningu, því fáir þeirra vita rétt með að fara*); hann segir þarámóti að það bezta meðal fyrir bændur að brúka sé Físis-sveppur (Lycoperdon borista), er almennt vex á túnum og á engjum, hann er í fyrstunni hvítur og harður, en síðan blautur, móleitur og mjúkur átekta.

Þegar nú sár blæða ákaflega, þá verður maður nákvæmlega að gá að hvar æðarnar eru sundurskornar eða særðar, í sárið á æðinni á nú að leggja lítið stykki af Físissvampi, en luckist manni ecki að finna sárið á æðinni, er bezt að fylla sárið með svampinum, og fer þá varla hjá því að nockuð komi í sárið á æð-

*) Þó munu flestir bændur á Íslandi svo vel viti bornir og aðgætnir, að þeir hafa tekið eptir því, að blóðrás opt stöðvast, þegar þrýckt er á æðarnar.

innni. Veri svo vid ad sárid sé á fótunum, hvar hægt er bindi um ad leggja, þá á ad leggja þverfingurs breidt bindi ofaná svampinn, og á þenna hátt festa Fisissveppinn; verdi því ei vidkomid, þá skal halda honum føstum í sárinu med fíngrunum, uns blódrásin er stødvud, og er þá bezt ad láta Fisissveppinn sitja þar fastann, uns vogurinn losar um hann, hvaded skédur optastnær hinn 3ja dag, því ef madur reyndi til ad plocka hann fyrr af, þá vill sárid ýfast upp ad nýu. Hafi madur lagt bindi um sárid, er bezt ad losa þad eptir 8 tíma, þared svampurinn þá optastnær situr fastur í sárinu.

## 5.

### Um Lamba-géldingu.

Þad er alvenja ad gélda lemb med hnífi, sem allir vita, en þad er ei heldur skjaldgæft ad þau opt deya eptir géldinguna. Í útløndum hafa menn adra adferd og sýnist hún øllu betri, þared lomb aldrei deya af géldingu, ef svo er adfarid; en þad skédur á þann hátt: Lambinu sé haldid svo þad liggi á hrygginn, og púngurinn hángi fritt; ullin umhverfis hann klippist þvínær af; ad því búnu tekur madur tjargadann hampenda og hnýtir tveimur stuttum spítum vid hvorn enda, þareptir gjørast 2 lyckjur á hampinn, á þann hátt, sem vísad er til á teblunni héraptan vid, Fig. 3; lyckjur þessar leggjast umkríng púnginn og

hnýtast að svo fast sem verður, en spíturnar, sem hnýttar eru við báða enda hampsins, eru þartil ætl-aðar, að maður með því meira abli géti hnýtt hnút-inn; þegar þetta er gjört sleppir maður lambinu, en herðir á hnútinn kvöld og morgna; á 4 eða 6 degi á púngurinn með báðum kólfunum að skérast af hér-umbil einum þumlúngi neðantil við hnútinn; sárið á þá að makast með nýu, ósöltuðu smjöri, en á hnút-inn herðir maður daglega, uns hann dettur af af sjálfum sér; má þá smyrja sárið á ný með ósöltuðu smjöri, svo mýbit og flugur ei setjist í það.

# Prentvillur.

Blsð. 26 l. 16 baður les baðar.
— 30 l. 26 sárinnm l. sárinu.
— 32 l. 1 § 18 l. § 19.
— 35 l. 5 þégar l. þegar.
— 58 l. 24 orðsakir l. orsakir.
— 74 l. 7 hattað l. háttað.
— 86 neðst da l. eða.
— 87 l. 16 barkannm l. barkanum.
— 96 l. 14 Narteticum l. Nartheticum.

## Utskiring yfir Töbluna.

Fig. 1 sýnir Bíld, með 2ur öxum. Skeiðin, sem axirnar lykjast í, er gjörð af horni eða látúni.
Merk: Þegar blóð á að taka, er öðruhvörju blaðinu upplokið, það sezt á ská á æðina, og með litlum hnall eða tréhamri slær maður á efri rönd axarinnar, svo hún stíngist á kaf.

— 2 sýnir Bólusetníngar-nál með skaptinu. Blaðið skrúfast uppí skaptið og má á þann átt hafa fleiri enn eitt blað til sama' skaptsins; (sjá Fjárbólu hér að framan). No. 1 sýnir skaptið til að skrúfa nálina í. No. 2 sýnir nálina sjálfa.

— 3 sýnir Géldíngahnút, má hann brúka bæði til að losa vörtur og gélda með, sem hér að framan er ávikið.

— 4 sýnir Hánkanál í tveimur pörtum; má skrúfa hana sundur og saman, svo hægra sé að hafa hana með á ferðum.

— 5 sýnir Bor til að stínga á vatnssjúkum kindum með, a) er alurinn, b) er skeiðin; (sjá Uppþembu, bls. 69).

— 6 sýnir Stólpípu; hana má tilbúa sem fyrr er sagt.

